# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

10.tbl. 4.árg. 31.maí - 15.júní 1978 150 kr.


## Baráttufundur

í Lindarbæ þriðjudagskvöld 14.júní kl. 20.oo

Á dagskrá verða m.a.:

Ávörp
Söngur
Upplestur
Leikþáttur

Reynt verður að fá fulltrúa Alýðubandalagsins til kappræðna um kosningarnar.

FRÆÐIST UM VALKOST BARÁTTUSTEFNUNNAR!

KYNNIST AFSTÖÐU BARÁTTUSINNA OG KOMMÚNISTA TIL KOSNINGA!

# Skilaðu auðu og þú greiðir atkvæði gegn arðránsfyrirkomulaginu

Sjá opnu

## Samningsbrot á verkafólki

Starfsfólk í nokkrum sælgætis- og kvöldsölum á Akureyri hefur þurft að þola brot á kjarasamningum sínum af hendi atvinnurekenda um talsvert langan tíma, en hér er um að ræða starfsfólk þriggja ESSO-stöðva, sem svonefndir "Kennedy-bræður" reka (þeir reka líka volduga bílaleigu - Bílaleigu Akureyrar - og hafa haft góðan pening upp úr bílaleigu til Kröflunefndar), en einnig koma við sögu 2 aðrar kvöldsölur.

Starfsfólkinu er greitt kaup samkvæmt taxta sem nálgast taxta fyrir eftirvinnu, en engar næturvinnugreiðslur tíðkast hins vegar. Fólkið hefur með þessu verið svikið um tugþúsundir af lögboðnu kaupi árlega. Mikil óánægja hefur verið meðal fólksins vegna þessa og það hefur sent Félagi verslunar- og skrifstofufólks á Akureyri margar kærur vegna þessa, en félagið ekkert gert í málinu.

Nú er málinu loksins hreyft opinberlega á Akureyri, en félagsforystan sleppir því að ræða við viðkomandi verkafólk um baráttumál þess. Hún ræðir þess í stað við atvinnurekendur og fer með yfirlýsingar í bæjarblöðin. Nýtur hún takmarkaðs trausts fyrir vikið og má geta þess að verkafólkið hunsaði almennt fundarboð sem það fékk frá stjórninni um fund á Hvítasunnudag. Vegna vinnutímans er erfitt að ná öllum saman á fund, en búast má við frekari tíðindum frá þessari réttmætu baráttu á Akureyri innan tíðar.

Verkalýðsblaðið lýsir fullum stuðningi við baráttuna og mun segja meira frá henni síðar.

## Bráðabirgðalögin: kosningabrella Geirs og þakklætisvottur til ASÍ forystunnar

# Aðeins stéttabarátta verkalýðsins sjálfs færir kjarabætur

## -gegn stéttasamvinnu og svikum ASÍ foringja

"Bráðabirgðalögin leysa ekki kjaradeiluna, en hins vegar er mögulegt að verkalýðshreyfingin breyti um baráttuaðferðir í ljósi þeirra." Þetta var inntakið í því sem heyrðist frá forystuliði ASÍ eftir að ríkisstjórnin birti bráðabirgðalögin 24. maí. "Baráttuaðferðir" ASÍ-foringjanna eru orðnar vel þekktar og fróðlegt verður að sjá hvernig næsti þáttur makalauss skrípaleiks þeirra undanfarnar vikur verður. Fyrst var sett á "útflutningsbann" með miklum lúðrablæstri í fjölmiðlum, en ASÍ-foringjarnir settu það þó á með þeim fyrirvara að auðherrarnir í útflutningsgreinum fengju alltaf undanþágu frá "banninu" til að flytja út varning sinn, ef frystiklefar frystihúsanna voru að fyllast! Þannig var fyrirfram ákveðið að "bannið"





**Guðmundur J Guðmundsson og Geir** Hallgrímsson. Þeir eiga margt sameiginlegt - báðir bera þeir hag "þjóðarbúsins" fyrir brjósti og þeir taka tillit til hvors annars í gerðum sínum. Samvinna þeirra er stéttasamvinna og hún er draugur í verkalýðsbaráttunni.

væri hrein sýndarmennska til að reyna að slá ryki í augu verkafólks, lægja óánægjuöldur og bæla baráttuvilja fólksins! Besti vitnisburður um ágæti "útflutningsbannsins" - fyrir auðvaldið á Íslandi - kemur fram í samantekt frá Hagstofu Íslands um viðskiptin við útlönd. Þar segir orðrétt:

"Eins og fram kemur hér fyrir ofan var útflutningsverðmætið í apríl 1978 mjög mikið þrátt fyrir útflutningsbannið Er óvíst að það hafi orsakað lækkað útflutningsverðmæti í þeim mánuði. Að vísu hefur mikill útflutningur farist fyrir í seinni hluta mánaðarins af þess völdum, en þar á móti kom að útflytjendur hafa kappkostað að afskipa sem mest af útflutningsvörum áður en verkfall kom til framkvæmda."

"Innflutningsbann á olíu" var hliðstæður skrípaleikur. Það var sett á með margra daga fyrirvara, svo að gæfist olíufélögunum tækifæri til að fá olíuskip frá Sovét til Reykjavíkur og birgja sig upp fyrir "bannið". Að auki gaf Dagsbrúnarforystan leyfi fyrir losun bensínskips 23. maí, af því hún taldi sig ekki "standa í illdeilum við almenning í landinu"! Hún hefði betur orðað þetta í samræmi við raunveruleikann: Verkalýðsforystan vildi ekki eiga í erjum við auðvaldið.

### Þakklætisvottur

Bráðabirgðalög Geirs færa verkafólki örlítið brot af þeirri kjaraskerðingu sem tekin var með valdboði í febrúar. Lögin gilda þó aðeins frá 1. júní 1978, þannig að kjaraskerðingin

Sjá bls. 3

## EIK(m-l) fordæma innrás Sovét í Kína

Fyrir skömmu réðust sovéskir hermenn inn á kínverskt landsvæði og gerðu árásir á kínverska alþýðu. Þetta gerðist við landamærin í Heilungkiang-héraði. Sovésku hermennirnir réðust yfir Ussuri ána og tóku 14 kínverja höndum, ráku þá niður að ánni og misþyrmdu þeim illilega. Fangarnir voru látnir lausir þegar fjöldi kínverja mótmælti aðförinni.

Það er eftirtektarvert að árás þessi kemur samtímis því að viðræður sovétmanna og kínverja um landamærin hófust að nýju eftir 15 mánaða hlé. Árásin virðist því vera í beinu samhengi við þær

Þetta er ekki í fyrsta sinn að rússar ráðast inn í Kína. Árið 1969 réðust rússneskar hersveitir inn í Kína við Wusuli ána með skriðdreka og fjölmennar sveitir.

Í nýútkominni bók eftir einn af ráðgjöfum Nixons fyrrum Bandaríkjaforseta, segir hann að

frh. á bls. 2

## Ísraelsríki 30 ára:

# „Lítil saga um ísraelskt réttarfar"

Ísraelsríki hélt nú á dögunum upp á 3o ára afmæli sitt: 3o ár útþenslu-og árásarstefnu gagnvart Arabaríkjunum, og 3o ár innanlandskúgunar , kynþáttamisréttis og mannréttindabrota gagnvart Palestínumönnum. Í fjölmiðlum vesturlanda er Ísrael gjarnan kallað "vestrænt lýðræðisríki" sem glóir eins og gull, umkringt arabískum einræðisríkjum. Við ætlum hér að segja eina litla sögu af mannréttindunum og lýðræðinu í "réttarfarsríkinu" Ísrael.

### Öryggisfanginn Hassan Fayek Bullut.

Í Ramleh-fangelsinu utan við Tel Aviv, stærsta fangelsi í Ísrael, sem geymir pólitíska fanga, situr Hassan Fayek Bullut. Fangelsi þetta er þekkt fyrir lélegan aðbúnað fanganna; þeim er troðið mörgum saman í litla og myrka klefa, þar sem þeir verða að dúsa 22 tíma á sólarhring.

Flestir eiga fangarnir langa fangelsisvist fyrir höndum, dæmdir fyrir "hryðjuverkastarfsemi", en svo kalla síonistar alla pólitíska starfsemi sem beinist gegn síonismanum. Heimsóknir eru leyfðar tvisvar í mánuði í 2o mín. í senn. Fangaverðirnir hlusta á allar samræður, og allir gestir verða að gangast undir líkamsleit fyrir heimsókn.

### Hver er Hassan Fayek Bullut ?

Hassan er tyrkneskur ríkisborgari, og hann hefur setið í fangelsi í Ísrael í 5 ár. Í byrjun sjöunda áratugsins neyddist hann til að flýja heimaland sitt vegna ofsókna stjórnvalda. Hann er námsmaður, tók þátt í stjórnmálum, og auk þess er hann Kúrdi. Hassan flúði til Líbanon, og hann var staddur í flóttamannabúðum þar, þegar Ísraelsmenn gerðu árásir á búð-

frh. á bls. 7

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# Verkefni baráttusinna og EIK(m-l) að næstu alþingiskosningum

Í III.landsþings EIK(m-l) og í mörgum greinum í Verkalýðsblaðinu hafa samtökin gert grein fyrir afstöðu sinni til alþingiskosninganna.

Eini valkostur baráttusinna í verkalýðshreyfingunni, í námsmannahreyfingunni, fyrir alþýðu til sjávar og sveita er sá að snúa baki við þingsalaflokkunum og skila auðu í kosningunum.

Veruleg fjölgun auðra atkvæða táknar aukna vantrú á þingræðisbaráttuna, vantraust á flokkana og sýnir vaxandi baráttustefnu. Til þess að EIK(m-l) geti átt stóran þátt í að svo verði þurfa allir félagar samtakanna, stuðningsmenn og aðrir baráttusinnar að vinna ötullega.

Meginatriðið í baráttunni er að afhjúpa haldleysi þingræðis- og stofnanabaráttunnar, þó hún sé nauðsynlegur angi byltingarstarfsins, og sams komar íhaldseðli allra fimm stóru stjórnmálaflokkanna.

Leggja verður áherslu á nauðsyn eigin baráttu fjöldans, á baráttuna fyrir verkalýðsfélögunum sem baráttutækjum, á baráttuna gegn risaveldunum og allri heimsvaldastefnu og á smíði sósíalísks Íslands.

Nauðsyn er á að aðgreina kommúníska stefnu frá Fylkingunni og "KFÍ/ML", leita víða út meðal fjöldans og sýna áræðni í upplýsingastarfinu.

Helstu verkefnin í starfinu til 25.6. eru þessi:

1.Aukin áhersla á sölu Verkalýðsblaðsins - m.a. á kosningafundum flokkanna

2.Dreifing dreifirita á stjórnmálafundi, stéttarfélagafundi og á vinnustaði.

3.Bein þátttaka í framboðsfundum með fyrirspurnum, ræðustúfum, dreifiritum o.fl.

4.Undirbúningur og þátttaka í þeim kosningafundum sem EIK(m-l) skipuleggja.

5.Þátttaka í herferð EIK(m-l) 19.6 - 25.6, sem mun m.a. vera fólgin í upplýsingamiðlun á fjölförnum stöðum í Rvk. og á Akureyri.

6.Viðræður við ættingja, vini og vinnu- eða skólafélaga um kosningamál.

Umræður um stefnu EIK(m-l) og afstöðu marx-lenínista til kosninga er traust undirstaða undir þetta starf. Það er þegar allt kemur til alls liður í undirbúningsstarfinu að stofnun hins nýja kommúnistaflokks fyrir árslok 1979.

Framkvæmdarnefnd miðstjórnar EIK(m-l) 23.5.

# TIL LESENDA

Okkur berst talsvert af bréfum, skilaboðum og upplýsingum frá lesendum. Fyrir þetta kunnum við ykkur mikla þökk. Hitt er ljóst, að vegna plássleysis í blaðinu er ekki hægt að birta nema lítinn hluta slíks efnis. Oft verðum við t.d. að láta okkur nægja að rétt minnast á málefni sem við höfum fengið sendar heilar greinar um. Hitt er ljóst, að með eflingu blaðsins og stækkun verður hægt að gera slíku efni betri skil í framtíðinni. Það er orðin knýjandi nauðsyn að efla Verkalýðsblaðið svo, að unnt verði að hefja útgáfu vikublaðs sem fyrst. Þetta er eitt mikilvægasta verkefni allra baráttusinna.

Við biðjum ykkur, lesendur góðir, að halda áfram að gera okkur orð, senda greinar, bréf, upplýsingar o.fl. Allt slíkt kemur að gagni, þótt það birtist ekki endilega allt. Það eflir þekkingu okkar sem að blaðinu vinnum og gerir okkur hæfari til starfs. Það bendir okkur á villur sem við gerum og getum bætt úr.

Áskriftaherferð Verkalýðsblaðsins er lokið. Hún tókst vel og er glæsilegur sigur. En það má ekki við svo búið standa. Áskrifendasöfnunin fer fram alla daga ársins. Látum því ekki staðar numið. Verkalýðsblaðið þarf miklu fleiri áskrifendur til að hægt sé að hefja útgáfu vikublaðs. Einnig þarf að auka lausasölu blaðsins. Sala hefur ekki verið nægilega góð að undanförnu, og nú verður að gera stórátak. Við hvejum því alla hópa félaga EIK(m-l) og stuðningsmenn til að hefja söluherferð, hver á sínum stað. Munum að Verkalýðsblaðið er verkalýð og annarri alþýðu nauðsynlegt í baráttu þess. Munum að afkoma blaðsins er engu öðru háð en virkni stuðningsmanna þess við að safna áskrifendum og selja blaðið. Við lifum ekki á fjárstuðningi ríkisvalds auðvaldsins né einstakra auðherra eins og borgaraleg blöð.

- GERUM VERKALÝÐSBLAÐIÐ AÐ BEITTU VOPNI Í STÉTTABARÁTTUNNI !

- VERKALÝÐSBLAÐIÐ VIKU HVERJA !

þá hafi Sovétríkin farið fram á það við Bandaríkin að þau héldi að sér höndum á meðan Sovétríkin gerðu afmarkaða kjarnorkuárás á Kína. Bandaríkin gátu ekki lofað þessu og Sovétríkin urðu að hætta við svo umfangsmikla árás.

Fyrr á þessu ári voru haldnar geysimiklar heræfingar rétt við kínversku landamærin. Sjálfur Brésneff vitjaði æfinganna og lagði blessun sína yfir liðið sem síðar réðist inn í Kína, þó í smáu væri að þessu sinni.

Það að þessi sovéska ógnun við öryggi Kína, leiddi ekki til stærri átaka eða algers stríðs var aðeins því að þakka að alþýðan í Kína er einbeitt og viljug til að halda frið við nágranna sína. Kínverska þjóðin æskir ekki eftir stríði, hún vill ekkert fermur en frið til að geta haldið áfram að byggja sósíalisman í Kína. En Kínverska þjóðin er samt þess fullviss að ef hún býr sig ekki vel undir að verja landið þá verður það auðveld bráð fyrir gráðug heimsvaldaríki og risaveldin.

Kína og Sovétríkin eru tvö ríki sem eru í grundvallaratriðum ólík. Kína er sósíalískt ríki, þar sem vilji fjöldans ræður ferðinni og uppbyggingin er í hans þágu. Sovétríkin eru gráðugt heimsvaldaríki, risaveldi, þar sem hagsmunir auðstéttarinnar þar ráða öllu um stefnuna. Þar er uppbyggingin ekki í þágu vinnandi alþýðu, heldur er hún undirokuð og beitt fasísku ofríki. Það er því ekki að furða að það andi köldu milli kínverskrar alþýðu og sovéskra stórnvalda, sem stefna sovéskri alþýðu í stríð við þá kínversku.

EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið fordæma árásir sovésku heimsvaldasinnanna á Kína og við fordæmum sovésku heimsvaldastefnuna hvar sem hún lætur til sín taka í heiminum.

# Athugasemd frá námsmönnum í Osló.

Eftirfarandi athugasemd barst blaðinu frá Osló:

"Vegna ályktunar sem samþykkt var á vorfundi SÍNE-deildarinnar í Osló þann 23.apríl sl. og felur í sér stuðningsyfirlýsingu deildarinnar við "Samfylkingu 1.maí 1978" viljum við undirrituð koma á framfæri eftirfarandi upplýsingum:

Af þeim 89 námsmönnum sem eru meðlimir SÍNE-deildarinnar í Osló voru 12 til staðar á fundinum þegar atkvæðagreiðsla fór fram. Atkvæði féllu þannig: Með: 6, móti: 2, hjá sátu: 4.

Um leið skorum við á stjórn SÍNE að vinna að og leggja fyrir atkvæðagreiðslu lagaákvæði um ályktunarhæfni funda".

(Undir þetta rita 20 einstaklingar nöfn sín)

Vbl. telur rétt að birta þessa athugasemd, en óneitanlega hljóta að vakna ýmsar efasemdir um heilindi undrskrifenda. Þetta var löglega boðaður og haldinn vorfundur deildarinnar, aðalfundur ársins. Hvar voru undirskrifendur þegar hann fór fram? Hvað um aðrar ályktanir fundarins - er þeim ekki mótmælt, eða voru þær e.t.v. meira í ætt við skoðanir undirskrifenda? Hvað um aðra fundi deildarinnar - hefur fjöldi fundarmanna alltaf verið miklu meiri en þessi? Að því er tíðindamaður Vbl. upplýsir okkur um, hafa trotskíistar og aðrir endurskoðunarsinnar notfært sér fæð fundarmanna til að fá sínar skoðanir samþykktar sem stefnu deildarinnar. Það gerðist t.d. haustið 1975, þegar Oslóardeildin "skipti um stefnu í lánamálum. Varðandi ályktunina um Samfylkingu 1.maí var þó ekki verið að móta stefnu deildarinnar til mikilsverðra hagsmunamála, heldur fá fram afstöðu eins ákveðins fundar til eins ákveðins máls, nefnilega aðgerða Samfylkingar 1.maí á alþjóðlegum baráttudegi verkalýðs árið 1978.

# KFÍ/ML missir marks

Stéttabaráttan helgar EIK(m-l) nokkurn hluta tbl. sinna. Stuðli blaðasamtal EIK(m-l) og "KFÍ/ML" að endanlegu uppgjöri samtakanna, skal ekki standa á Verkalýðsblaðinu.

Í 19. tbl. Stb. eru mörg tilefni til svara EIK(m-l). Ekki ætlar Vbl. sér þó að vera fastur leiðréttingarliður við Stb. Það eru andstæður stefnu og starfshátta sem liggja að baki ágreinings samtakanna. Þær koma í ljós með baráttu þeirra sín í milli og er það vel.

## 1.maí.

Áður en Baráttueining "KFÍ/ML" hóf starf gafst félögum flokksins kostur á fullri þátttöku á einstaklings- og jafnréttisgrunni í Samfylkingu 1.maí sem marx-lenínistar studdu. Tilboð stóð einnig eftir fyrstu samvinnutilraun "KFÍ/ML" og trotskíista Fylkingarinnar. En hvað gerir "KFÍ/ML" ? Flokkurinn velur samvinnu við pólitíska meðreiðarsveina svartasta afturhalds og falssósíalisma - trotskíistana. Allt í einu eru þeir "róttæk öfl" þvert ofan í umsagnir Stéttabaráttunnar í áraraðir.

Engu máli skiptir þótt "KFÍ/ML" hafi getað borið óljósar "sérkröfur" 1.maí, á borð við "útþenslu - og drottnurnarstefnu Sovétríkjanna". Flokkurinn blæs lífi í andsósíalísk samtök Fylkingarmanna með alrangri og hættulegri samfylkingu við þá í stað ósættanlegrar baráttu.

Stéttabaráttan segir eininguna við þá hafa verið "baráttueiningu fyrir mikilvægustu kröfum gegn auðvaldi og stéttasamvinnu" (Stb. nr.19). En úr því Fylkingin telur ekki stéttasamvinnuforystuna vera höfuðstoð atvinnurekenda í verkalýðshreyfingunni, úr því hún telur Sovétríkin verkalýðsríki, úr því hún telur sósíalismann ekki mögulegan í einu landi og úr því að hún afneitar sjálfsákvörðunarrétti þjóða - hvernig getir þetta þá verið satt?

## Útflutningsbannið

Stéttabaráttan segir Vbl. hafa gert "KFÍ/ML" upp þá skoðun að útflutningsbannið sé öflug aðgerð. Blaðið segir að aðeins hafi verið um almennar vangaveltur yfir útflutningsbönnum að ræða. Segir Stb. að EIK(m-l) reyni að "skerpa ágreininginn með grósögum".

Í umræddri grein í 16.tbl.Stb. stendur hins vegar:

"Þessi aðgerð, útflutningsbannið, hefur að vonum vakið umtal... þeir sem andvígir eru þessum baráttuleiðum Verkamannasambandsins eru þeir sömu og eru andvígir því að verkalýðurinn gangi leið stéttabaráttunnar yfirleitt og eru því í raun þjónar auðstéttarinnar".

Hvað er þetta annað en tálsýn um og stuðningur við "leið stéttabaráttunnar" hjá forystunni?

Þessi ranga afstaða er af sama þræði og önnur "barátta" flokksins: Eins og annað byggir afstaðan til útflutningsbannsins á því að "KFÍ/ML" telur í reynd forystuna "þjóna hagsmunum tveggja stétta" (þ.e. verkalýðs og auðstéttar) - sjá Stb. nr.19 bls.5 - í stað þess að hún sé réttilega pólitískur handlangari atvinnurekenda. Í reynd afmarkar "KFÍ/ML" sig ekki frá stéttasamvinnuforystunni. Flokkurinn skilur ekki að aðgerð sem skipulögð er, rekin og stjórnað af Verkamannasambandsforystunni getur ekki verið baráttuaðgerð. Þetta vissu kommúnistar fyrirfram en Stéttabaráttan ekki. Kommúnistar hvöttu því til þátttöku í aðgerðunum en um leið til baráttu gegn ákvörðunarháttum, stjórnun, skipulagi og framkvæmd bannsins. En því fer svo fjarri að andstaðan í verkalýðshreyfingunni hafi styrk til að snúa banninu í baráttuaðgerð. Þetta má bera saman við hugmyndir Stb. um "góðu hliðar" Verkamannasambandsforystunnar:

" Útflutningsbannið byrjaði vel, en var eyðilagt af þeim verkalýðsforingjum sem taka ábyrga afstöðu með... atvinnurekendum.." (Stb. nr.19)

Af þessu öllu sést að "KFÍ/ML" er að reyna að breiða yfir kratisma, ruglanda og óljósa afmörkun frá stéttasamvinnunni með öllu moldviðinu um "grósögur EIK(m-l)".

Verkalýðsblaðið gerir þó vissulega sjálfsgagnrýni á eigin ónákvæmni í athugasemdum um grein í Stb. nr.16. Einnig var ekki verið að bera ákveðna félaga í "KFÍ/ML" fyrir rangri stefnu flokksins varðandi bannið, eins og Stb. gegur í skyn. Gagnrýni EIK(m-l) og Vbl. stendur óhögguð.



**Benedikt ogSigurður Jón blaða** í "baráttugögnum" Verkalýðssambandsforystunnar á s.l.þingi. Þeir skipa nú "baráttusætin" á lista "flokksins".

## Eritrea.

Stéttabaráttan hefur varla minnst á þjóðfrelsisbaráttuna í Eritreu einu orði nokkurn tíma. Í göngu RVEI/Baráttueiningar 1.maí var borði sem boðaði stuðning við þjóðfrelsisöflin - gegn hverjum mátti ekki standa á borðanum vegna heilagrar einingar "KFÍ/ML" og trotskíistanna - óvini alls þjóðfrelsis - sem segja t.d. baráttu fyrir sjálfræði Íslands nú vera "afturhaldssama". Fyrir utan þetta vesæla yfirklór yfir "gleymsku" "KFÍ/ML" var ekki minnst einu orði á Eritreu í aðgerðunum. Og þrátt fyrir að fulltrúi Eritreu ætti viðtöl við nær alla fjölmiðla, utanríkisráðuneytið og talaði yfir hundruðum manna hjá Samfylkingu 1.maí og á 3o manna fundi á vegum EIK(m-l), segir Sbr. að EIK(m-l) "beri ekki hagsmuni Eritreu fyrir brjósti", hafi staðið að"einangruðum aðgerðum handa fáeinum útvöldum". Kannski að félagar "KFÍ/ML" hefðu getað stutt aðgerðir Samfylkingar 1.maí (með ljósum stuðningi við Eritreu) og mætt fleiri en 3 (!) á fundinn í Félagsstofnun stúdenta. Nema þá þeir hafi viljað að Eritreumaðurinn gengi með þeim undir fánum "4.Alþjóðasambands" trotskíista, sem þjóðfrelsisöfl allra landa skilgreina sem hluta óvinaliðsins. Eða þá viljað að hann héldi fund sinn í nafni "Baráttuhreyfingar gegn heimsvaldastefnu" sem þegir vendilega um Sovétríkin og þjóðarmorð þeirra í Afríku.

Nei - í málum Eritreu hafa EIK(m-l) hreinan skjöld, en "KFÍ/ML" engan.

Alla þessa hentistefnu býður "KFÍ/ML" fram til kjósenda í Alþingiskosningunum. Svar baráttusinna er: Néi - þökk fyrir !

# Þingræðisbarátta...

arðránsríkinu. Kjarabaráttan er stéttabarátta, barátta upp á líf og dauða milli verkalýðs og auðherra og henni má aldrei ljúka fyrr en endanlegur sigur er unninn,- verkalýðurinn tekur völdin í sósíalískri byltingu og skipuleggur nýja gerð samfélags.

# Verkalýðsforystan...

yfirráð framleiðslutækjanna til þeirra sem skapa auðinn.

Að lokum þetta: Baráttan fyrir öflugri Samfylkingu 1.maí er liður í því að tryggja framgang baráttustefnu á flestum sviðum. Höldum áfram þessu starfi og gerum alla daga að baráttudögum undir merki kröfunnar:

EINING Á GRUNDVELLI STÉTTABARÁTTU - ENDURREISUM STÉTTARFÉLÖGIN SEM BARÁTTUTÆKI !





# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

FRAMHALD AF FORSÍÐU

## Aðeins stéttabarátta verkalýðsins sjálfs færir kjarabætur

frá febr. til júní stendur óbætt. Hins vegar gera lögin meira en að skila ránsfeng - þau fela einnig í sér enn frekari kjaraskerðingu og nú á yfir- og margs konar sérálögum (aldurshækkunum, bónus o.fl.). Bráðabirgðalögin eru sett í þrennum tilgangi: a) til að reyna að efla vinsældir stjórnarflokkanna fyrir kosningar,b) til að reyna að bæla vaxandi óánægju verkafólks og baráttuvilja, c) til að verðlauna ASÍ-foringjana fyrir að hafa unnið traust starf við að halda aftur af verkafólki undanfarnar vikur og varðveita gróða auðvaldsins. Auðherrarnir - borgarastéttin á Íslandi - er þar með að láta í ljós ánægju sína með árangursríka samvinnustefnu ASÍ-forystunnar við auðvaldið.

"Samningana í gildi" segir ASÍ.

"Samningana í gildi" sagði forystulið ASÍ, BSRB og BHM eftir að kaupránslögin voru sett. Enn kyrja þau þennan afturhaldssama söng. Þessi krafa felur í sér þá staðhæfingu, að núgildandi kjarasamningar séu fullboðlegir verkafólki, að það sé eingöngu ríkisstjórninni að kenna að kaup verkalýðs er af skornum skammti. Þetta er alrangt. Kjarasamningarnir voru og eru svikasamningar. Kaupránslögin í febrúar gerðu það aðeins að hirða af verkafólki hluta smánarkaups sem ASÍ-foringjarnir sömdu upp á í fyrra.

Kjarni málsins er alltaf sá sami: Hver dagur og hver atburður í kjarabaráttunni eftir annan sýnir betur og betur, að nauðsynlegt er að verkafólkið sjálft taki yfirstjórn baráttunnar úr höndum ASÍ-foringjanna. Verkafólk á að krefjast funda í félögum sínum og samþykkja að segja algjörlega lausum sólstöðusamningunum, kjósa síðan vekfalls- og samninganefndir úr eigin röðum og hafna ASÍ-samflotum. Síðan eiga félögin sjálf og sérgreinasambönd að ákveða baráttu sína, setja fram kröfur og fylgja þeim eftir.

Þetta gerist auðvitað ekki í einu vetfangi, en aðalatriðið er að byrja. Byrja á því að ræða kjarabaráttuna á eigin vinnustað, ræða svikastefnu ASÍ, o.s.frv. Ræða við vinnufélagana um stéttasamvinnustefnu ASÍ-foringjanna.og skaðsemi hennar í verkalýðsbaráttunni (þ.e. hvernig bókstaflega allt þeirra starf (ASÍ-forystunnar) miðar að því að viðhalda gróðahagsmunum auðvaldsins og arðránsskipulaginu á allan hátt). Þessi stefna er ósættanlega andstæð verkalýðsbaráttunni. Stéttasamvinnustefnu og auðvaldsþjónkun verður að útrýma úr verkalýðshreyfingunni.

Vöruskiptajöfnuðurinn:

**Óveruleg áhrif útflutningsbanns**

Mbl. 25/5 '78

Guðmundur J. Guðmundsson

---

Liðsfundur 8.mars hreyfingarinnar var haldinn 18.maí s.l. í húsi HÍP. Á fundinum voru störf hreyfingarinnar metin og einnig möguleikarnir á áframhaldandi starfi. Fundarkonur voru sammála um að hefja af krafti undirbúning að aðgerðum 8.mars næsta haust, og taka þá upp umræður um stofnun kvennabaráttusamtaka. Á liðsfundinum var kosin þriggja manna nefnd til að undirbúa liðsfund á hausti komanda og vinna drög að fræðilegu lesefni fyrir starfið næsta vetur.

---

# Opið bréf til fél. i KFI(m-l)

Félagar "KFÍ/m-l" í Dagsbrún vilja samvinnu við félaga í Eik þar. Þeirri málaleitan svörum við á sama hátt og áður:

Hún er þeim velkomin eins og verkamönnum allra flokka - að slepptum sjálfum stéttasamvinnuforingjum

Smíði andstöðuliða gegn stéttasamvinnunni og fyrir endurreisn stéttarfélaganna sem baráttutækja er rétt hafin. Hún er ekki fólgin í vanbúnum framboðum t.d. í Dagsbrún, í útgáfu örfárra manna á strjálu blaði eða í óljósri afmörkun baráttusinna frá stéttasamvinnuforingjunum.

Til þess að smíða andstöðulið þarf meðal annars þetta:

1. Trausta fjöldastefnu sem tryggir mesta mögulega virkni og stuðning verkafólks við hverja aðgerð innan félaganna sem utan.
2. Nokkur tengsl um starf á vinnustöðum við verkafólk hlutaðeigandi félaga.
3. Sértæk kröfugerð sem tekur mið af baráttustöðu, baráttugetu og hagsmunum verkafólksins t.d. tímabundnar kjarakröfur, m.a. launakröfu.
4. Stöðuga afhjúpun á og algjöra afmörkun frá stéttasamvinnuforingjum, án nokkurrar samvinnu við þá.

Smærri fundir baráttusinna, blaðaútgáfa, ályktanir, framboð o.fl. eru liðir í framkvæmd þessa.

Eik(m-l) eru mótfallin sérstakri samvinnu við félaga "KFÍ/m-l" í Dagsbrún umfram baráttusinna úr öðrum flokkum. En öll samvinna sem stofnað er til á grunni atriðanna fjögurra og annarra, með félögum "KFÍ/m-l" og öðrum er æskileg og óumflýjanleg. Í undirbúningi hennar er barist gegn röngum stefnuatriðum og röngum starfsháttum.

Orsök neitunar á sérsamvinnu við "KFÍ/m-l" er sú að "flokkurinn" hefur alls ekki afmarkað sig frá endurskoðunar og hentistefnunni eða gert fullnægjandi sjálfsgagnrýni á skemmdarverkastarf upphafsára sinna. Að auki teljum við sérstaka samvinnu byggða á félagaaðild að stjórnmálasamtökum almennt andstæða samfylkingaraðferðum kommúnista í verkalýðsfélögunum.

Félagar Eik(m-l) í Dagsbrún.

---

# Rauðsokkahreyfingin tekur þátt í atkvæðasmölun Alþýðubandalagsins

Nú er komið út 1.blað Rauðsokkahreyfingarinnar á þessu ári og er 1.maí blað. Þetta blað sýnir það svart á hvítu að mat Verkalýðsblaðsins og EIK(m-l) á Rsh. er rétt. Rauðsokkahreyfingin er samkrull ýmissa borgaralegra afla. "Hið frjálsa" skipulag hreyfingarinnar gerir það að verkum að framsæknar baráttulínur ná ekki fram, því þær falla ekki að hugmyndum sjálfskipaðrar og óformlegrar stjórnar Rauðsokkahreyfingarinnar. Ein grein í Forvitin Rauð bar yfirskriftina "Aumingja EIK(m-l)". Þar er talað um 8.mars hreyfinguna sem "dótturfyrirtæki" EIK(m-l) 8.mars hreyfingin var samfylking fjölda kvenna sem fylktu sér um það markmið að undirbúa alþjóðlega baráttudaginn og gera honum góð skil með fundi. Þetta veit sá fjöldi kvenna sem tók þátt í baráttu 8.mars hreyfingarinnar. Sameinast var á grundvelli sem voru kröfur dagsins. Fram að 8.mars störfuðu hópar að því að ræða kröfurnar og fleiri þætti kvennabaráttu, auk undirbúnings fundarins, sem heppnaðist í alla staði mjög vel. EIK(m-l) studdu þessa samfylkingu frá upphafi og lagði þar hönd að verki til þess að hún mætti bera sem mestan árangur og gæti orðið kvennabaráttunni hér mikilvæg reynsla. Í 8.mars starfinu kom það í ljós, sem vitað var fyrir, að fjölmargar konur hafa byrjað að starfa með Rauðsokkahreyfingunni en hætt fljótlega sökum þess að þær sáu þar ekki tækifæri til að berjast á framsækinn hátt og ná árangri. Það er augljóst að skipulag Rsh., um að allir megi gera það sem þeim sýnist (nærri allt), nær ekki lengra en til lítils hóps kvenna sem mynda nokkurs konar stjórn, sem annars á ekki að vera til eftir því sem skipulag Rsh. segir til um. Rsh. var á móti aðgerðum 8.mars hreyfingarinnar á þeim forsendum að barátta gegn allri heimsvaldastefnu var með í kröfum hreyfingarinnar, Rsh hefur þá baráttu ekki á dagskrá, og styður þá væntanlega ekki kynsystur sínar í Eritreu í baráttunni gegn sovésku heimsvaldastefnunni fyrir frelsi þjóðar sinnar. Síðan vilja Rauðsokkurnar meina að tilvitnanir í málgagn þeirra sé ómark vegna þess að "borgaralegir" feministar hafi gengið úr Rsh. árið ´74. Þetta staðfestir aðeins það að enn eru feministar í Rsh. fyrst aðeins þeir "borgaralegu" gengu út, því það er ekkert til sem heitir borgaralegir eða ekki borgaralegir feministar, heldur er feministastefnan borgaraleg og verður aldrei neitt annað. Með þessu er Rsh. enn einu sinni að reyna að draga róttæknislega dulu yfir ranga stefnu sína í kvennabaráttunni. Í dag er það augljóst hvað Rsh. á við með "að vinna að öflugri og sjálfstæðari kvenfrelsishreyfingu hér á landi", eins og stendur í fyrrnefndri grein, því þessa dagana syngja Rauðsokkar inn atkvæði og lyfta stemningunni í atkvæðasmölun Alþýðubandalagsins nú fyrir kosningar. Þetta er algerlega í samræmi við alla starfháttu Rsh., þær slá um sig með fallegum kröfum en starfa ekki samkvæmt þeim. Rsh. hefur til dæmis ekki enn látið í ljós álit sitt a´ "lýðræðinu" svokallaða í Rsh. þegar bókabrennan mikla var á 1.maí blaðinu ´76. Þá tók þáverandi sjálfkjörna stjórn Rsh. sig til ásamt stuðningsmönnum sínum og keypti upp blaðið, sem sýnir okkur það hvað hægt er að gera í krafti peningavaldsins og þar sem lýðræði er ekki virt.

Látum útrætt um blað Rsh. að sinni en Verkalýðsblaðið mun taka upp þráðinn að nýju í næsta tölublaði.

Fréttaritari.

---

## Samtíningur

"RITDÓMUR"...

...ritstjóra Stúdentablaðsins um Verkalýðsblaðið (bls.10, 4.tbl. 1978) :

"Á hverri síðu í þessu auma blaði opinberast mannfyrirlitning, hatur og slík skelfingarheimska og lágkúra að hroll setur að menntuðu fólki."

Í sömu eru EIK(m-l) nefnd "Óvitafélag marx-lenínista".

Félagar og stuðningsmenn EIK(m-l) í Háskóla Íslands eru "millistéttarunglingar með próletarkomplexa" að mati ritstjóra Stúdentablaðsins - Alþýðubandalagsmanns og stúdentaleiðtoga.

SAMNINGANA Í GILDI...

...hrópuðu félagar "KFÍ/ML" þann 1. maí í samkór með Fylkingunni. Það merkir 120 þús.kr. á mán. fyrir þá lægstlaunuðu. Í síðasta tbl. Stéttabaráttunnar átelur það EIK(ml) fyrir kröfuna um 150 þús. kr. lágmarkslaun --- því hún sé alltof lág!!

LJÓST ER NÚ...

... að Svavar Gestsson, ritstjóri Þjóðviljans, mun verma hlýjar setur þingpallanna næstu fjögur árin, en hann skipar efsta sæti lista Alþýðubandalagsins í Rvík til þings. Mun Svavar um leið yfirgefa ritstjórnarstólinn, en í hans stað mun Hjalti Kristgeirsson taka við ritstjórn Þjóðviljans. Hjalti er gamalreyndur endurskoðunarsinni, sem hlaut uppfræðslu og uppeldi í herbúðum Krúsjof-endurskoðunarsinna í Austur-Evrópu á sínum tíma. Hann er aðal "fræðisprauta" AB; á m.a. heiðurinn af samsuðu "stefnuskrár AB" sem er bragðvondur hræringur af endurskoðuðum marxisma og nýkapitalískri hugmyndafræði.

Honum er ætlað að gefa AB og Þjóðviljanum dálítið "marxískara yfirbragð" til að gera fyrirbærin kræsilegri í augum róttæks fólks. Ráðning hans er glöggt vitni um hræðslu endurskoðunarsinna við vöxt og viðgang marx-lenínísku hreyfingarinnar á Íslandi. Verkalýðsblaðið og EIK(m-l) munu sjá svo til að Hjalti fái nóg að gera í nýja djobbinu!

FORMAÐUR Á FLÓTTA...

Fylkingin er nú allt að því formannslaus - Björn Arnórsson hinn réttkjörni formaður hefur nú hreiðrað um sig í Alþýðubandalaginu. Tekur hann fullan þátt í kosningastarfi AB en hunsar algjörlega framboð eigin samtaka. Nýlega rákum við augun í mynd á síðum Þjóðviljans sem sýndi starfslið Alþýðubandalagsins fyrir komandi kosningar við opnun kosningaskrifstofu flokksins. Sat þar á fremstu bekkjum Björn Arnórsson og ekki annað að sjá en að bærilega færi um hann.

NÝR BORGARSTJÓRI...

Morgunblaðið upplýsti þ. 20.maí að ef andstöðuflokkar Stálfstæðisflokksins sigruðu í borgarstjórnarkosningunum þá myndi næsti borgarstjóri Reykjavíkur heita Karl Marx. Stuttu áður sagði Adda Bára Sigfúsdóttir, númer tvö á framboðslista Alþýðubandalagsins í blaðaviðtali, að hún vissi lítið um Marx. Sýnist okkur hér vera á ferðinni hættulegt þekkingarleysi og ekki seinna vænna fyrir Öddu Báru að kynnast hinu nýja borgarstjóraefni.

# Lenin: Um borgaralegt lýðræði og alræði öreiganna

Frammi fyrir vaxandi byltingarhreyfingu verkalýðs í öllum löndum gerir borgarastéttin og erindrekar hennar innan verkalýðshreyfingarinnar örvæntingarfullar tilraunir til að finna hugmyndafræðileg og pólitísk rök til varnar yfirráðum arðræningjanna...

Í fyrsta lagi styðja þessi rök sig við hugtökin "lýðræði almennt" og "almennt alræði", án þess að spyrja hvaða stétt sé um að ræða. Þessi framsetning er óháð eða ofar stéttum og virðist njóta vinsælda. Hún er hrein háðung við grundvallarkenningu sósíalismans, kenninguna um stéttabaráttuna. Þeir sósíalistar, sem hafa tekið afstöðu með borgarastéttinni viðurkenna þessa kenningu í orði en gleyma henni í reynd. Því að "lýðræði almennt" er ekki fyrir hendi í neinu þróuðu auðvaldslandi, þar er aðeins borgaralegt lýðræði....



Sagan kennir okkur að engin undirokuð stétt hefur nokkru sinni getað náð völdunum án tímabils alræðis. Það þýðir að hinir kúguðu ná pólitískum völdum og brjóta með valdi niður mótspyrnu arðræningjanna – mótspyrnu sem er mjög örvæntingarfull og gefur hvergi eftir..

Til að útskýra stéttareðli borgaralegs þjóðfélags, borgaralegt lýðræði og borgaralegt þingræðiskerfi , hafa allir sósíalistar notað hugmyndir sem Marx og Engels settu fram með mikilli vísindalegri nákvæmni, nefnilega að jafnvel lýðræðislegasta borgaralega lýðveldi sé ekkert annað en tæki fyrir borgarastéttina til að kúga verkalýðsstéttina og fyrir nokkra auðherra til að undiroka vinnandi fjöldann....

Borgaralega lýðræðið er vissulega mjög framsækið miðað við aðstæður á miðöldum, en það þarf óhjákvæmilega róttækra breytinga við á tímaskeiði verkalýðsbyltingar. Það var Marx, sem mat best sögulega þýðingu Parísarkommúnunnar (1848). Í greiningu sinni afhjúpaði hann arðránseðli borgaralegs lýðræðis og borgaralegs þingræðisskipulags. Borgaralegt lýðræði gefur kúguðum stéttum rétt einu sinni á nokkurra ára fresti til að ákveða hver úr ríkjandi stétt skuli vera fulltrúi og böðull þjóðarinnar á ríkisþinginu....

Alræði öreiganna á það sameiginlegt með alræði annarra stétta að það – eins og allt annað alræði – kemur fram sem svar við þeirri nauðsyn að kúga með valdi andstöðu þeirrar stéttar sem misst hefur pólitísk yfirráð sín. Grundvallar mismunur á alræði öreiganna og alræði annarra stétta liggur í þeirri staðreynd að aðrar stéttir kúga andstöðu meirihluta íbúanna, það er að segja hina vinnandi alþýðu..

Afnám ríkisvaldsins er það takmark sem allir sósíalistar, en þó fyrst og fremst Marx, hafa sett sér. Raunverulegt lýðræði, þ.e.a.s. frelsi og jafnrétti er óhugsandi fyrr en þessu marki er náð.

En í reynd getur það aðeins gerst með tilstilli ráðstjórnarlýðræðis eða alræðis öreiganna, því að auk þess að fjöldahreyfingar vinnandi fólks eru þar dregnar til stöðugrar þátttöku í stjórnun ríkisins er einnig hafinn undirbúningur þess að sérhvert form ríkisins visni burt.

# Skilaðu auðu og þú greiðir atkvæði gegn arðránsfyrirkomulaginu

Gegn kaupránsflokkunum:

Alþýðubandalagið hefur sett fram slagorðið – gegn kaupránsflokkunum –. Þetta slagorð er sjálfsagt að styðja á þeim grundvelli að verk allra flokka sé vegið og þeir dæmdir af því. Slíkt mat getur aldrei falið þá staðreynd að Alþýðubandalagið er líka kaupránsflokkur. Eða hvert var hlutverk AB í maí 1974, þegar verðbótaákvæði febrúarsamninganna var fellt niður og verkalýður þar með rændur sjálfsögðum og nauðsynlegum hækkunum og hverær hefur AB sett fram kröfu um að þeir samningar fái gildi á ný. Hvert var hlutskipti AB í "vinstri" – stjórninni, þegar gerðar voru allskonar efnahagsráðstafanir sem lækkuðu rauntekjur , gerðu lífskjörin verri. AB er einn af kaupránsflokkunum og hann á alls ekki að kjósa fremur en hina.

Hver á að stýra íslenska auðvaldsskipulaginu?

Í alþingiskosningunum eiga flokkarnir það sameiginlegt að allir stefna að því að fá aðstöðu til að stjórna auðvaldsþjóðfélaginu á Íslandi – að stjórna gróðanum og leiðum til að arðræna verkalýðinn. Enginn flokkanna setur fram markmið sem beinast gegn skipulaginu sem slíku. Sérhvert atkvæði sem



**greitt er flokkunum er atkvæði** sem styrkir arðránskerfið.

Kosningaloforð og tálbeitur?

Verkalýður og vinnandi fólk á Íslandi veit að kosningar eru eins og sirkus. Þar er keppst við að sýna sem fegurstar listir og koma með nógu snjöll ráð og brögð. Íhaldið reynir að klekkja á Alþýðubandalaginu og Alþýðubandalagið reynir að klekkja á Framsókn, Framsókn á Íhaldi og AB o.s.frv. Þetta er þaulæfður leikur, en ekki alvara. Þetta er sjónarspil borgaralegs lýðræðis. Alvöruna fær alþýðan ekki að sjá, því hún er falin í ríkisvaldinu sjálfu.

**Þetta ríkisvald** er samsafn stofnana sem notaðar eru til að klekkja á alþýðunni. Þegar Íhaldið segir "báknið burt" er það jafn öfugsnúið og þegar Brésneff og Carter segja "við elskum frið" og þegar AB segist ber hag alþýðunnar fyrir brjósti þá er það jafn öfugsnúið og þegar Brésneff og Carter segjast styðja þjóðfrelsisöfl í 3.heiminum.

Verkalýðsblaðið hefur spurt allmarga félaga í AB hvort þeir hafi tekið þátt í að móta kosningastefnu AB. Svarið er undantekningalaust NEI. Samz er uppi á teningnum þegar við höfum spurt um það hvort félagar í AB hafi tekið vorkan þátt í að móta "Íslenska atvinnustefnu" AB,sem gumað var svo mikið af og er ekkert annað en stuðningur við borgarastétt Íslands. Svarið var undantekningalaust NEI. Í sumun tilfellum var bætt við – "við fengum að ræða hana eftirá, í sérstökum fundum þar sem hún var kynnt". Þetta er "LÝÐRÆÐIÐ" í Alþýðubandalaginu. Þetta eiga almennir félagar AB að láta sér að kenningu verða.

Það er svona sem kosningaloforð flokkanna verða til. Lítill hópur í flokksforystunni semur stefnuna og gerir hana að stefnu allra hinna. Þetta er alvanalegt í öllum borgaralegum flokkum og líka í AB, sem er ekkert annað en einn borgaralegu flokkanna.

Atkvæði sem greitt er Alþýðubandalaginu er nákvæmlega jafn mikils virði og atkvæði sem greitt er hinum flokkunum – það er atkvæði til stuðnings borgaralegu samfélagi arðráns og spillingar.

"KFÍ/ML" og Fylkingin

Óljóst er af hverju ekki varð úr þessum tveim framboðum einn listi. Ágreiningsmálin voru jöfnuð svo kyrfilega 1. maí í faðmlögum um stéttasamvinnu og trotskíska ræflarokksrúmbu. Bæði þessi framboð þjóna því einu að gefa alþýðunni á Íslandi falskar hugmyndir um verkalýðsbaráttu. Annars vegar er það Fylkingin sem býður fram í Reykjavík í Alþíngiskosningunum en styður AB í öllum öðrum kosningum og hins vegar "KFÍ/ML" sem líka býður fram aðeins í

frh. á síðu 7

## Gott er það sem íslenskt er!

EIK(m-l) hafa ein pólitískra samtaka afhjúpað og sett fram baráttukröfur gegn arðráni íslenskra einokunarhringja erlendis.

Í augum hentistefnu- og endurskoðunarsinna, sérstaklega Alþýðubandalagsins, eru umsvif ísl. auðstéttar erlendis "mikilvæg" og "gjaldeyrisskapandi". Enda er ríkiskapítalismi flokksins í raun ein stoð þessa arðráns og smágerfu drottnunar- eða heimsvaldastefnu. SÍS og SH í Bandaríkjunum ráða um 25 % freðfiskmarkaðarins, Flugleiðir einoka farþegaflug frá og til Bahamaeyja og stóran hluta vöruflutninga til Hong Kong, Breiðholt h/f kreistir gróðan úr alþýðu Nigeríu osfrv.

Gróðinn sem fæst erlendis er nýttur til þess að herða arðránið þar og hér heima – eins konar vitamínsprauta auðvaldinu til handa. Vegna þessa og samstöðu sinnar með stéttabræðrunum erlendis ber íslensku verkafólki og vinnandi alþýðu að berjast gegn arðráninu fullum fetum.

Þjóðviljinn (22.3.) slær upp og hrósar umsvifum íslenskrar verkfræðisamsteypu, VIRKIS, erlendis. Um er að ræða hönnun gufuaflsmannvirkja í löndum 3. heimsins t.d. Guatemala, Chile, Kenýa og Tansaníu.

Telur Þjóðviljinn þetta stuðnings vert og kætist yfir "gjaldseyrisskapandi" verkum VIRKIS. Eins á þetta að bæta ísl. verkmenntun.

Nýjasta verkefni VIRKIS kostar Tansaníustjórn 200-250 milljónir kr. Ekki kemur fram hvað fer í vasa sérfræðinga VIRKIS (Sólnes o.fl.), hve mikið til verkafólksins hjá VIRKI og hve mikið til ríkisins

Nú ber ekki að skilja svo að EIK (m-l) séu andsnúin samvinnu milli landa og þjóða. Aðalatriðið er að ekki sé um arðrán og hindrun gegn tækniþróun þjóðanna sem nota aðstoðina að ræða. Sé svo skal snúast gegn "samvinnunni".

Reyndar er afar ólíklegt í auðvaldsþjóðfélagi að eitthvað annað en gróðabrall stýri þróunarhjálpinni, þó ekki sé það algild regla t.d. í verslun. En í þessu máli verður ekkert fullyrt í bili, en bent á að Þjóðviljinn er svo góður talsmaður einokunarfyrirtækja og í ísl. umsvifa erlendis, að "rannsóknarblaðamennskan" er látin lönd og leið og upp tekin lofrollan.

## Samfylking 1. mai

# „Ný „vinstri" stjórn enginn valkostur"

## -úr ræðu Árna Kjartanssonar

### Akureyri

Árni Kjartansson, iðnnemi, flutti ræðu á fundi Samfylkingar 1.maí á Akureyri. Hann ræddi fyrst um stéttskiptingu ísl. auðvaldsþjóðfélagsins og sífelldar árásir auðherranna í krafti ríkisvaldsins á kaup og kjör verkafólks. Síðan sagði Árni:

"En hvers vegna er verkalýðsbaráttan ekki meiri og harðari? Hvers vegna er hún ekki árangursríkari? Skýringanna tel ég að sé að leita í þeim baráttuaðferðum og vopnum sem notuð eru í baráttunni. Eitt helsta vopn atvinnurekendanna er ríkisvaldið, sem er fyrst og fremst notað til að tryggja völd ríkjandi stéttar og kúga verkalýðsstéttina. Hlutverk þess er m.a. að setja löggjöf um skattamál, vinnulög o.fl., sem eingöngu tekur mið af hagsmunum atvinnurekenda. Gott dæmi um þetta eru þær "efnahagsráðstafanir" sem gerðar eru með jöfnu millibili og sem alltaf ganga út á það að skerða kjör verkafólks.

Þetta eru m.a. gengisfellingar og skerðingar á vísitölubótum, tollabreytingar og aukin skattpíning. Slíkar aðgerðir hafa verið gerðar af "vinstri" stjórnum engu síður en hægri stjórnum, eins og t.d. eftir samningana 1974, þegar hin svokallaða "vinstri stjórn" [illegible] bætur á kaup. Þessar aðgerðir stjórnarinnar urðu til þess að [illegible] verðbólgan stöðvaðist. Hvert á móti – hún blómstraði engu verr en áður og sýnir það að ekki er samhengi á milli vísitölubindingar kaups og verðbólgunnar. Þetta bendir okkur einnig á, að ný "vinstri" stjórn mun ekki verða neinn valkostur fyrir launafólk.

Mönnum er einnig ofarlega í huga síðustu aðgerðir ríkisstjórnarinnar, þar sem stolið var frá launafólki sem svarar ríflegu mánaðarkaupi á þessu ári. Því finnst mér rétt að skoða aðeins nánar hvernig þessum árásum hefur verið "svarað" af verkalýðsforingjunum og hvaða árangurs sé að vænta af baráttu hennar nú.

Það var byrjað á því að gefa út stóryrðar yfirlýsingar fyrir lagasetninguna, sem Alþingi, að vonum, tók lítið mark á. Síðan skellti verkalýðsforystan á 2ja daga allsherjarverkfalli sem var mishepppnuð aðgerð. [illegible] boðuð með þá löngum fyrirvara, að þau kom ekki verr við atvinnurekendur en hver annar frídagur. Þessu verkfalli var frá upphafi aldrei ætlað að færa neinn árangur, heldur var tilgangurinn fyrst og fremst sá að forystan gæti haldið andliti gagnvart verkafólki og í öðru lagi að leiða baráttuvilja félagsmanna í verkalýðsfélögunum í þann farveg, að hann skaðaði sem minnst hag atvinnurekenda. Þarna ganga verkalýðsforingjarnir einnig erinda hinna pólitísku flokka, sem í dag berjast um þingsæti og ráðherrastóla. Alþýðuflokkurinn og Alþýðubandalagið sjá sér þarna leik á borði, að [illegible] og klekkja á ríkisstjórn Íhalds og Framsóknar. Ekki var heldur neinn einhugur um þessar aðgerðir, sem [illegible], þar sem þeim var stjórnað algerlega ofan frá og verkafólk í fjölmörgum félögum tóku ekki þátt í að [illegible] baráttuaðferðina. Verkafólki var einnig ljóst, að þessi aðgerð myndi aldrei færa neinn árangur og sá því lítinn tilgang í að taka þátt í henni. Útkoman varð sú, að stór hluti launafólks tók ekki þátt.í aðgerðunum þannig að þær urðu kraftlitlar og gáfu ekki rétta mynd af þeirri samstöðu sem er meðal launafólks. Á þennan hátt urðu þessar aðgerðir einungis vatn á myllu andstæðinganna, sem lagði því fram, að engin samstaða sé fyrir hendi hjá launafólki, og að stór hluti þess sé alveg sáttur við kjaraskerðinguna. Síðan hefur verið sett á svokallað útflutningsbann. Þar er hið sama uppi á teningnum – aðgerðirnar eru þannig lagðar upp að þær eiga ekki að skaða atvinnurekendur. Það á hvergi að stoppa neitt. Þessar aðgerðir, sem eru líka algjörlega skipulagðar ofan frá, áttu að vera heildaraðgerð [illegible]. Hinum einstöku félögum er ekki ætlað að móta aðgerðirnar eftir eigin þörfum og aðstæðum. Ótal undanþágur eru gefnar frá þessu "útflutningsbanni" og má nefna að fyrir helgi var skipað út 40 þús. kössum af freðfiski frá Vestmannaeyjum, eða meira magni en nokkru sinni áður í einu!"

# „Verkalýðsforystan er andstæðingur okkar"

## -úr ræðu Einars Gunnarssonar

Í ræðu sinni á fundi Samfylkingar 1.maí í Tjarnarbúð talaði Einar Gunnarsson, form. Félags járniðnaðarnema í Rvík, um stéttasamvinnustefnuna og borgaralegu verkalýðsflokkana og sagði þá m.a.:

"Auðvaldið beitir margs konar aðferðum til að sigrast á verkalýðshreyfingunni. Annars vegar beitir það hreinu ofbeldi, sendir lögreglu á verkafólk eða aðra alþýðu. Það skerðir réttindi verkafólks m.a. með banni á verkföllum og öðru slíku. Hins vegar hefur auðvaldið beitt þeim fólskuráðum að senda erindreka sína undir fölskum flöggum inn í verkalýðshreyfinguna og vinna þar skemmdarverk. Ljósasta dæmið um þetta er Guðmundur H. Garðarsson í Verslunarmannafélagi Reykjavíkur.

Enn fremur hefur auðvaldið, eftir að árangur ofbeldisaðgerða varð ekki eins og ætlast var til, farið inn á þá braut að kaupa upp sérstaklega forystumenn hreyfingarinnar með úthlutun allskonar bitlinga, oftast hjá ríki og bæ en einnig í fyrirtækjum. Íslenska auðvaldinu hefur þannig tekist að gera verulegan hluta ísl. verkalýðsforystu sér handgenginn og hættulausan. Leikurinn hefur því orðið auðvaldinu auðveldari en annars, ef íslensk alþýða hefði átt sér raunverulegt forystuafl í baráttunni innan verkalýðshreyfingarinnar.

Hinir svokölluðu verkalýðsflokkar, Alþýðubandalaga og Alþýðuflokkur, veita enga frambærilega forystu, þar eð þeir eru tengdir auðvaldinu böndum. Í dag reyna



Einar Gunnarson

báðir að vinna og nota fylgi verkafólks og alþýðu til að hlaða undir eigin rass og beita til þess auglýsingaskrumi, blekkingum og loforðaflóði, geri alþýðan svo vel að kjósa þá í alþingis- og bæjarstjórnarkosningum. Í reynd er nú svo komið með flokka þessa, að spurningamerki verður að setja við hvort þeir eða hinir svokölluðu borgaraflokkar séu meiri talsmenn þess þjóðfélagsforms sem við búum við. Topparnir í verkalýðshreyfingunni, bæði faglegri og stjórnmálalegri, vinna í reynd gegn hagsmunum verkafólks og alþýðu í flestum málum. Þessir aðilar reyna að brjóta niður alla þá fjöldabaráttu sem upp kemur, og loka hana annað hvort inni í þingsölum eða einangra hana á skrifstofum ASÍ. Þeir reyna einnig með öllum ráðum að drepa niður þann litla vísi að baráttu sem nú kemur víða fram í verkalýðshreyfingunni, með því annað hvort að þegja baráttuna í hel eða jafnvel að brjóta hana niður."

FORYSTAN ER ANDSTÆÐINGUR:

"Í ljósi þessa tel ég mikilvægt að slá föstu að þessi forysta verkalýðshreyfingarinnar er ósættanlegur andstæðingur okkar. Hún er meira en gölluð, hún er andstæðingur framsækinnar verkalýðsbaráttu og baráttu í átt til sósíalisma. Þess vegna þurfum við samhliða því að efla virkni og auka á fylgi við baráttustefnuna í samtökum okkar, að vinna að því að gera þessa aðila áhrifalausa."

Einar fjallaði því næst um málefni iðnnemahreyfingarinnar, en lauk ræðu sinni með eftirfarandi orður:

"Ég hef stiklað hér á stóru um eðli stéttasamvinnustefnunnar og ástand verkalýðshreyfingarinnar, en ekkert um aðrar mikilvægar fagkröfur eins og t.d. kröfuna um 150 þús. kr. lágmarkskaup. Þessi krafa er mikilvæg dægurkrafa, en yfirhöfuð er rangt að miða baráttuna við krónupólitíkina eina. Aðalbaráttan á að snúast um framgang sósíalismans og

frh. á bls. 2

# „Námsfólk og launafólk eiga sama óvin"

## -úr ræðu Björns Harðarsonar

Björn Harðarson, nemi í jarðfræði við Háskóla Íslands, flutti ávarp á innifundi Samfylkingar 1.maí. Ávarpið er hér birt í heild sinni:

"Undanfarin ár hafa einkennst af því að kjör námsmanna sem og launafólks hafa verið stórskert. Hvað varðar skerðingu á kjörum og réttindum námsmanna, ber hæst að nefna [illegible] óaðgengileg m.a. með fullri vísitölubindingu lána og [illegible] launafólks [illegible] eykst stöðugt og beiting fjöldatakmarka [illegible]. Uppi eru áætlanir hjá forráðamönnum Háskólans um skerðingu á valfrelsi innan einstakra deilda og niðurfellingu haustprófa.

Svör forystumanna stúdenta hafa verið fálmkend. Í stað þess að reyna að virkja þorra námsmanna til baráttu, hefur makk við embættismenn, undansláttu og vaklandi (hentistefna) verið ríkjandi. Heyrst hafa raddir um að "námsmenn þurfi bara að kjósa rétt" þá skáni hagur þeirra. Þetta er sama "baráttuaðferðin" og að segja launafólki að "kjarabæturnar verði taldar upp úr kjörkössunum". Þetta sama viðhorf er sett fram undir yfirskrift eins 1.maí fundarins (þ.e. fundar fulltrúaráðs verkalýðsfélaganna – aths. Vbl.): "Kosning er kjarabarátta".

En baráttusinnar meðal námsmanna og alls launafólks eiga annað svar: Að standa saman og berjast fyrir bættum kjörum. Óvinur námsfólks og launafólks



Björn Harðarson

er hinn sami: Ríkisvaldið, sem einskis svífst til að tryggja hagsmuni auðstéttarinnar. Vísa verður á bug öllum úrtöluröddum sem miða að því að afvegaleiða baráttuna. Ríkisvaldið er hið sama hvort sem við völd situr svokölluð "vinstri" eða hægri stjórn.

Baráttusinnaðir námsmenn í Háskóla Íslands hafa valið þá leið að vinna markvisst að því að gera hagsmunafélög hverrar námsbrautar að virkum baráttusamtökum. Þar er vettvangur sem sameinar alla námsmenn án tillits til pólitískra skoðanna, vettvangur til að miðla upplýsingum, áróðri og til að skipuleggja baráttuna. Starf í þessa átt er hafið innan nokkurra hagsmunafélaga og við erum staðráðnir í að láta ekki deigan síga fyrr en fullum sigri er náð og afkoma námsmanna og réttindi eru tryggð".

# 1.maí um víða veröld:

## Danmörk

Um 3000 manns tóku þátt í 1.maí kröfugöngu Kommúníska Verkamannaflokksins KAP. Í ræðu á útifundi í Kaupmannahöfn hvatti formaður flokksins Benito Scocozza til harðari baráttu gegn risaveldunum og sérlega þó hinni ógnvekjandi útþenslu sovésku sósíalheimsvaldastefnu. Aðgerðir KAP voru merki um vaxandi styrk flokksins.

## Svíþjóð

Göngur og fundir voru haldnar á meira en 300 stöðum. Kröfur sem bornar voru hvöttu til baráttu fyrir þjóðlegu sjálfstæði Svíþjóðar og baráttu gegn risaveldunum og stríðsundirbúningi þeirra. Bróðurflokkur EIK(m-l) Sænski kommúnistaflokkurinn, studdi faglegar samfylkingaraðgerðir um landið allt og tók mjög virkan þátt í starfi þessara samfylkinga.

## Noregur

Göngur Faglegu 1.maí samfylkingarinnar voru hvarvetna stærstu göngurnar 1.maí í Noregi. Meira en 20 þús. manns tóku þátt í þessum göngum og báru upp kröfur og vígorð gegn afturhaldsstjórn norska Verkamannaflokksins og kjararánslögum hennar, gegn sífelldum hótunum Sovétríkjanna og íhlutun á Svalbarða og í Barentshafi, gegn stríðsundirbúningi risaveldanna beggja. Í göngunni í Osló,sem taldi hálft níunda þúsund, voru fjölmargir fánar verkalýðsfélaga. Áberandi krafa í 1.maí göngunum í Noregi var um að Sovétríkin og Kúba hyrfu á brott frá Afríku og átti sú krafa miklu fylgi að fagna.

Bróðurflokkur EIK(m-l) í Noregi Kommúnistaflokkur verkamanna (m-l) var mikil driffjöður í þessari 1.maí samfylkingu, sem sýndi sig að vera nú faglega sterkari en nokkru sinni áður.

## Finnland

Tugir þúsunda verkamanna gengu í kröfugöngum í Finnlandi 1.maí og báru uppi kröfur gegn atvinnuleysi og efnahagsóreiðu, sem bitnar harðast á verkafólki og vinnandi alþýðu.

## Færeyjar

Systursamtök EIK(m-l) í Færeyjum, Oggjaframi(m-l), stóðu að stofnun samfylkingar um aðgerðir 1.maí. Í Þórshöfn gengu á fjórða hundrað í göngu og 5-600 sóttu útifund á eftir. Þá voru göngur á tveim öðrum stöðum og var þátttaka þar hátt í 100 á hvorum stað.

Í öllum löndum meginlandsins voru fjölmennar göngur baráttusinna. Áberandi krafa í öllum aðgerðum var "Til baráttu gegn risaveldunum Bandaríkjunum og Sovétríkjunum og stríðsundirbúningi þeirra". Hvatt var til samfylkingar gegn þessum hættulegustu óvinum alþýðunnar um allan heim.

## Osló

Á 1.maí 1978 var gengiðí fjórum kröfugöngum í Osló. Í einu stéttabaráttugöngunni, sem eins og undanfarin ár nefndist "Faglig 1.maí Front" gengu 8.400 manns. Varð þessi ganga stærst í Osló, stærri en hinar til samans. 56 Íslendingar gengu í "Faglig 1.maí Front" -göngunni. Meðal Íslendinga í Osló var stofnað "Faglig 1.maí Front" nefnd í lok mars, sem vann ötullega að undirbúningi 1.maí. Haldinn var m.a. fjölskyldufundur með dagskrá fyrir börn og fullorðna, þar sem kjörorðin sem gengið var undir, voru rædd og samþykkt. Einnig var efnt til Eritreukvölds og flóttamaður frá Eritreu kom í heimsókn og sagði fréttir frá heimalandi sínu og sýndi litskuggamyndir. Þá var einnig sýnd kvikmyndin "Stå på" sem fjallaði um 9 verkamenn á Hammerverk í Stavanger sem var sagt upp af pólitískum ástæðum 1975. Að lokum var svo haldinn vinnufundur þar sem kjörorðin voru máluð á borða og spjöld. Þau voru:

–Ísland úr Nato – herinn burt!
–Barátta gegn norskri heimsvaldastefnu – Norsk Hydro og Elkem Spigerverket frá Íslandi!
–Baráttu gegn allri heimsvaldastefnu – verjum sjálfsákvörðunrrétt Íslands!
–Verkafólk ber ekki ábyrgð á kreppu auðvaldsins – eining stúdentar/verkafólk!
–Konur krefjast atvinnuréttar – gegn því að nota konur sem varavinnuafl!
–Fyrir sjálfstæði Grænlands og Færeyja!
–Sömu laun fyrir sömu vinnu!

## Lundur

Íslendingar í Lundi tóku öflugan þátt í 1.maí-starfi þar. 1.maí-nefnd Íslendinga þar tók þátt í aðgerðum Verkalýðssamfylkingar 1.maí (Facklig 1.maj 1978) og myndaði þar eigin deild undir vígorðunum:

–Ísland úr Nato – herinn burt!
–Gegn kreppupólitík íslenskra stjórnvalda!
–Stöndum vörð um sjálfsákvörðunarrétt Íslands!
–Íslensk námslán nái 1650 króna markinu!
–Samstaða með frelsisbaráttu Færeyja og Grænlands!

Í göngu Verkalýðssamfylkingarinnar tóku þátt hvorki meira né minna en milli 40 og 50 Íslendingar.- Glæsileg þátttaka.

Að loknum útifundi og göngu söfnuðust Íslendingar saman á fundi Lundardeildar Samtaka Herstöðvaandstæðinga, þar sem var fjölbreytt dagskrá.

Verkalýðsblaðið skýrir nánar frá 1.maí um víða veröld í næsta blaði.



**Lönd vilja sjálfstæði · þjóðir vilja frelsi · alþýðan vill byltingu**

# Zaire: Innrásinni stjórnað af kúbuhermönnum

Landið Zaire, sem áður hét Kóngó, er enn á ný skótspónn heimsvaldastefnu. Í fyrra var einnig gerð árás á landið og þá sem nú frá Angólu. Héraðið sem ráðist er inn í er Saba-héraðið í suðurhluta landsins en það er auðugasta og mikilvægasta héraðið fyrir efnahag Zaire.

Áður en Kóngó varð sjálfstætt og fékk nafnið Zaire, byggðu belgar og bretar upp afturhaldslið leiguhermanna sem stjórnað var af Moise Tsjombe. Það var þessi leigu her sem drap frelsishetjuna Patrice Lumumba, en hann var í forystu fyrir and-heimsvaldasinnaðri ríkisstjórn í Kongó. Afturhaldsliðinu tókst ekki að ná völdunum í landinu og var hrakið á brott árið 1965 og Mobutu varð forseti landsins. Leiguherliðið lagði portúgölsku nýlenduherrunum í Angóla lið í baráttunni gegn þjóðfrelsishreyfingunum. Þegar sovéska heimsvaldastefnan hafði sundrað þjóðfrelsishreyfingunum í Angólu og att þeim saman í blóðuga borgarastyrjöld, vopnað MPLA nýtísku vopnum, sett kúbani í forystu hersins, þá var afturhaldsliðinu hans Tsjombe fengin sósíalheimvaldasinnuð forysta og það notað gegn þjóðfrelsishreyfingunum UNITA og FNLA.



**Stjórnarhermenn frá Zaire á verði við flugvöllinn** í Kolwezi þ. 17 maí, eftir að hann var unninn úr höndum innrásarmanna

Það er þetta sama lið sem sósíalheimsvaldasinnar Sovétríkjanna notuðu í fyrra til innrásar í Zaire og það er einnig notað núna. Þannig hefur eðlilega skapast bandalag milli afturhaldsliðsins og sósíalheimsvaldasinnanna.

Innrásin í Zaire í fyrra og sú sem nú hefur verið gerð eru liður í framrás sovésku heimsvaldastefnunnar í Afríku. Fyrst voru völdin tryggð í Angólu og þaðan gert út í landvinningastríð. Innrásin núna sýnir að Sovétríkin svífast einskis og herða ránsferðina í þriðja heiminum. Þau sækjast eftir alheimsyfirráðum í sjálfsagðri óþökk allrar alþýðu. Krafa alþýðunnar um allan heim er því: Sovétríkin á brott úr Afríku!

# Hua Kuo-feng heimsækir Norður-Kóreu





Hua Kuo-feng formaður miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína og forsætisráðherra Alþýðulýðveldisins Kína kom í opinbera vináttuheimsókn til Norður - Kóreu 5.maí síðast liðinn. Þetta er fyrsta utanlandsferð Hua Kuo-feng eftir að hann varð forsætisráðherra. Honum var vel fagnað við komuna til höfuðborgarinnar Pyongynag og tók Kim Il Sung forseti Kóreu á móti honum. Þann 7. var haldinn fjöldafundur í Pyongynag honum til heiðurs og tóku loo þús.manns þátt í fundinum.

Hua Kuo-feng formaður staðfesti fullan stuðning Kína við sameiningu allrar Kóreu. - En vegna heimsvaldastefnuBandaríkjanna, og stuðnings Pak Jung Hi-klíkunnar í S-Kóreu við hana væri Kórea enn þann dag í dag skipt. Hua Kuo-feng benti á það að kóreanska þjóðin gæti ein leyst spurninguna um sameiningu. Leysa verður upp "sveitir S.Þ." og Bandaríkin verða að flytja allar árásarsveitir sínar og hergögn burt úr S-Kóreu.

Kim Il Sung sagði að Hua Kuo-feng formaður færði út stefnu félaga Mao Tsetung og félaga Chou En-lai, og að heimsókn hans til Kóreu tryggði enn betur vináttu kínversku og kóreönsku þjóðanna, "markar enn einn viðburðinn í sögu vináttunnar milli Kóreu og Kína".

# Sameiginleg yfirlýsing:

## Risaveldin sameiginlegur óvinur allrar alþýðu

Nýlega birtist í belgíska blaðinu Clarte et l'exploite sameiginleg yfirlýsing Kommúnistaflokks Belgíu(m-l) og Verkamannaflokksins(m-l) í Dóminikanska lýðveldinu.

Í yfirlýsingunni segir m.a. að báðir flokkarnir "aðhyllist kenninguna um skiptingu heimsins í þrjá heima, sem var sett fram af Maó formanna, mesta marx-lenínista okkar tíma. Kenningin leggur alþýðu heimsins til stjórnlist og baráttuaðferðir til að öðlast sigur... Hún greinir þá sem eru aðal óvinurinn, þá sem eru nánasti bandamaðurinn og þá sem eru þar á milli, og mögulegt er að sameinast. eða a.m.k. halda hlutlausum; þannig greinir kenningin sameiginlegan óvin alþýðu allra landa: Bandarísku heimsvaldastefnuna og sovésku sósíalheimsvaldastefnuna.

Í yfirlýsingunni segir einnig að "samkeppni bandarísku heimsvaldastefnunnar og sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar um heimsyfirráð mun óhjákvæmilega leiða til styrjaldar".

Í lok yfirlýsingarinnar segir að báðir séu flokkarnir ákveðnir í að verja einingu og samstöðu allra marx-lenínískra flokka og samtaka á jafnréttisgrundvelli.

# Nýtt blað á Grænlandi

**aningâk**

siunertakakatigîngnek sulekatigîngnek atakatigîngnek nangminersorner.

Nýtt blað hefur hafið göngu sína á Grænlandi og kallast það aningāk. Það er gefið út af hreyfingunni Inuit AtaKatigit, sem vinnur að sameiningu allra þeirra staðbundnu hópa og hreyfinga sem m.a. voru stofnaðar á sumarráðstefnunni Aussivik - 77. Markmiðið er að byggja upp samtök sem berjist fyrir algjöru sjálfstæði Grænlands, og er blaðið anigāK mikilvægur hlekkur í þeirri uppbyggingu. Blaðið hefur nú þegar útbreiðslu um allt landið.

Fyrst um sinn mun blaðið vera liður í undirbúningi næstu sumarráðstefnu, Aussivik-78. Á þessum sumarráðstefnum, sem eru að verða árviss atburður, er nýlendukúgun Dana á Grænlendingum og sjálfstæðismálin rædd. Blaðið kemur ekki reglulega út ennþá og orsakast það af því að blaðið skortir tæki til að vinna að útgáfunni. Nú er hafin fjársöfnun fyrir prentvél.

Útgáfa anigaK og áhugi fyrir Aussivik-ráðstefnunum bera hinum vaxandi baráttuhug Grænlendinga gegn nýlendukúgun Dana glöggt vitni.

# Eritrea: Sprengjuárásir á óbreytta borgara





Mengistu, yfirmaður fasísku herforingjastjórnarinnar í Eþíópíu, lét hafa eftir sér að hersveitir frá Sovétríkjunum, Kúbu, Suður-Jemen og Austur-Þýskalandi tækju þátt í hinum hörðu árásum, sem herforingjastjórnin hefur nú hafið á Frelsishreyfingu Erítreu. Þetta hefur einnig verið staðfest af talsmönnum Frelsishreyfingarinnar.

Erítreíska frelsishreyfingin segir, að í árásunum að undanförnu hafi óbreyttir borgarar orðið harðast úti; tala fallinna er orðin óhugnanlega há. Þá er lögð mikil áhersla á það, að það sem hin Sovét-studda herforingjastjórn er að framkvæma svo til óáreitt, er þjóðmorð á Erítreísku þjóðinni.

Andheimsvaldasinnar Íslands: Við verðum að gera allt sem í okkar valdi stendur til að koma í veg fyrir fyrirætlanir fasistastjórnarinnar og sósíalheimsvaldasinna í Kreml. Styðjum Frelsishreyfingu Erítreu! Gefum í fjársöfnun EIK(m-l) til handa Frelsishreyfingar Erítreu! Sovétríkin burt úr Afríkuhorninu!

Harðir bardagar hafa geisað í Erítreu allt frá því um miðjan maí. Harðast hefur verið barist við höfuðborgina Asmara. Þar hefur Eþíópíuher um 40 þús. hermenn, og tókst hluta hans að komast tíu kílómetra út frá borginni, en tókst þó ekki að sprengja umsáturshring Erítreuskæruliða umhverfis hana. Þá hafa Eþíópíumenn reynt að ná fram með ströndinni í suðurhluta Erítreu, studdir sprengjuárásum úr lofti og af hafi. Mörg þorp með ströndinni sem eru í höndum skæruliða Erítreu, hafa orðið fyrir gífurlegum sprengjuárásum af hafi. Einnig hefur her Eþíópíu reynt að sækja fram út frá Barentu og svæðinu þar í kring, í norð-vesturhluta landsins, sem enn er í þeirra höndum.

Mikill liðssöfnuður er við landamæri Erítreu og Eþíópíu, og er augljóst að stórsókn skriðdrekasveita er í undirbúningi þaðan. Tíminn er naumur, því aðeins er mánuður þar til regntíminn hefst, og þá verður ófært fyrir skriðdreka um landsbyggðina.

# STUÐNINGUR VIÐ PAC

Blaðinu hafa borist tvær stuðningsyfirlýsingar við frelsishreyfinguna Pan Africanist Congress í Asaníu (S-Afríku), en sem kunnugt er er nýlokið söfnun EIK(m-l) til PAC með glæsilegum árangri. Yfirlýsingarnar eru frá stjórn Félags járniðnaðarnema í Rvík og deild Sambands ísl. námsmanna erlendis (SÍNE) í Osló.

Yfirlýsing járniðnaðarnema hljóðar svo:

"Við styðjum heilshugar baráttu svarta meirihlutans í S-Afríku (Asaníu) gegn hinni grimmu fasistastjórn Vorstersklíkunnar.

Við teljum mikilvægt að styðja baráttu stéttarsystkina okkar gegn kúgun og misrétti hvar sem er í heiminum. Fögnum því frumkvæði EIK(m-l) að efna til kynningar á baráttu og fjársöfnunar fyrir PAC sem stendur í eldlínunni í baráttunni í Asaníu.

Lifi frjáls Asanía! Lifi PAC!"

Kveðjan frá Osló hljóða svo:

"Oslódeild SÍNE lýsir yfir fullum stuðningi sínum við baráttu PAC í Asaníu. Kynþáttakúgun og ógnarstjórn er daglegt brauð íbúa Asaníu. En af kúgun sprettur andstaða. PAC er nú í fararbroddi þessarar andstöðu. Við erum sannfærð um að alþýða Asaníu muni sigra í þessari baráttu - þó svo að andstæðingurinn virðist öflugur.

Lifi PAC! Lifi barátta alþýðunnar í Asaníu!"

Þess má að lokum geta að SÍNE-deildin í Osló sendi 100 norskar kr. til PAC-söfnunar EIK(m-l).

Fundur í Uppsaladeild SÍNE, haldinn 23.4.78 lýsir yfir fullum stuðningi við þjóðfrelsisbaráttuna í Azaníu (Suður - Afríku). Við teljum sjálfsákvörðunarrétt þjóða vera sjálfsögð lýðréttindi og lýsum andúð okkar á þeirri grimmilegu kynþáttakúgun sem fasistastjórn Vorsters beitir íbúa landsins.

(Samþykkt samhljóða)

# Juri Orlov og Jon Michelet - tveir dæmdir

Juri Orlov.

Dómurinn yfir Juri Orlov og öðrum andstæðingum Brésneff-fasismans í Sovétríkjunum sýnir að það er ekkert lýðræði í landinu, ekki einu sinni borgaralegt lýðræði. Þar er fasismi. Afbrot Juri Orlov var að hann ásamt fleirum vildu tryggja það að Brésneff-fasisminn færi eftir Helsinki-sáttmálanum, sem sá sami Brésneff var svo ákafur í að fá undirritaðan. Brésneff vildi fá sáttmálann undirritaðan til að fegra ásjónu sína út á við, og fá þannig enn eina fjöður til að fela fasismann. Hann ætlaði aldrei að fara eftir ákvæðum sáttmálans. Ákvæði í sáttmálanum segja m.a. fyrir um, að almenn mannréttindi skulu ríkja í löndum þeirra sem undirrituðu hann. Almenn mannréttindi eru t.d. það að segja það sem maður vill um stjórnvöld án þess að það gangi þó út yfir almennt velsæmi. Þessu er öðruvísi farið í Sovétríkjunum. Þar er öll andstaða við Brésneff ofsótt. Til eru margskonar andstöðusamtök í Sovétríkjunum. T.d. þess liðs sem er í kring um Andrei Sakharoff og aðra menntamenn. Þetta er borgaraleg andstaða, sem engu að síður er í andstöðu við Brésneff-fasismann. Þá eru til mismunandi marxískir hópar og andstöðulið. T.d. Byltingarsinnaðir kommúnistar og Stalín - hópurinn. Þessi marxísku öfl



Október-bókabúðin í Tromsö eftir að nasistar höfðu sprengt hana með dýnamiti 13.mars 1977. (Mynd:Klassekampen)

styðja marx-lenínismann/kenningu Mao Tsetungs, enda eru þau hálfu grimmilegar ofsótt en önnur andstaða, af því að þau eru boðberi verkalýðsuppreisnar og verkalýðsbyltingar. Það óttast Brésneff mest af öllu.

Jon Michelet.

Í nágrannalandinu okkar, Noregi, var maður dæmdur nú á dögunum. Það hefur ekki farið mikið fyrir skrifum um það hérlendis, t.d. í Morgunblaðinu. Sá heitir Jón Michelet. Hann er dæmdur fyrir að hafa gagnrýnt lögregluna. Þetta átti að hafa gerst á blaðamannafundi í Tromsö í N-Noregi, eftir að nýnasistar höfðu sprengt Október-bókabúðina í Tromsö í loft upp með dýnamiti. Vitað var að nýnasistar áttu samúð hjá lögreglunni, m.a. vegna fyrri grimmdarverka nasista, t.d. er einn þeirra stakk unglingsdreng hnífstungum á götu úti í Bodö, æpandi "kommúnistasvín, kommúnistasvín". Hnífamaðurinn hóf skömmu eftir þetta að æfa skotfimi með Tromsö-lögreglunni. Michelet lét, á umræddum blaðamannafundi, í það skína að lögreglan stæði sig ekki nógu vel í leitinni að sprengjumönnunum sem sprengdu Október-búðina, en eyddi þeim mun meiri tíma í að grafast fyrir um starfsemi kommúnista í bænum, m.a. með því að krefjast félagaskrár AKP(m-l), bróðurflokks EIK(m-l), og upplýsinga um starfsfólk búðarinnar. Kommúnistar vita að lögreglan er óvinur og létu engar upplýsingar af hendi, enda kom það sprengjurannsókninni ekkert við. Þannig starfar lögreglan í Noregi og kommúnistinn Jon Michelet var dæmdur í fjársektir fyrir að gagnrýna lögregluna.

Lögreglan í Noregi og Brésneff fasisminn eru ekki nánir samherjar, engu að síður greinar á sama meiði, - afrakstur af háþróuðu borgaralegu samfélagskerfi, þar sem réttur vinnandi alþýðu og framsækins fólks er gerður að engu í nafni laganna.

# til baráttu

Komið er út 1 tbl. 2. árg. af tímaritinu "Til baráttu - kommúnískt námsmannablað EIK (m-l)". Meginefni þess er umfjöllun um endurskoðunarstefnu og baráttuna gegn henni. Helstu greinar tímaritsins eru:

1. "Gegn endurskoðunarstefnunni - forsenda árangursríkrar baráttu í hreyfingu námsmanna" - sem er ræða fulltrúa EIK(m-l) á námsmannaráðstefnu í Félagsheimili stúdenta í mars 1978. Þar er rakin stefna og starf EIK(m-l) í málefnum námsmanna, einkum við Háskóla Íslands og flett rækilega ofan af undansláttarstefnu misrauðra endurskoðunarsinna í röðum "vinstrimanna" í Háskólanum.

2. "Líkið í lest SÍNE - um starf trotskíista meðal íslenskra námsmanna erlendis" - grein sem dregur saman reynsluna af starfi trotskíista í SÍNE undanfarin ár og afhjúpar þá sem skemmdarverkamenn og klofningsaðila. Í síðari hluta greinarinnar er dregin upp almenn lýsing á trotskíismanum sem stjórnmálastefnu á hnitmiðaðan og áhrifamikinn hátt.

3. "Starf og stefna byltingarsinnaðrar stúdentahreyfingar" - sem er ræða fulltrúa Kommúníska stúdentasambandsins í Noregi (NKS) á fundi EIK(m-l) í skólunum í Reykjavík 19. mars s.l.

Verkalýðsblaðið hvetur alla lesendur sína til að verða sér úti um eintak af "Til baráttu". Það fæst í Októberbúðinni að Óðinsgötu 30, Rvík, í Októberbúðinni í Hafnarstræti 79, Akureyri, svo og hjá stuðningsdeildum og söluaðilum EIK(m-l). Verð tímaritsins er kr. 200,-. Hægt er að fá það sent í pósti með því að skrifa til:

EIK(m-l)/skólunum
Pósthólf 5186
125 Reykjavík.

# Barátta gegn endurskoðunarstefnu - 3.tbl. komið út

Nýlega er komið út 3.tbl. tímaritsins "Barátta gegn endurskoðunarstefnu", sem gefið er út af fyrrverandi félögum "KFÍ/ML" og fjallar fyrst og fremst um hentistefnu og endurskoðunarstefnu þess "flokks". Í þessu tbl. er margt góðra greina. M.a. er þar greinargerð þeirra þriggja, sem gengu út flokknum í nóv. sl. og bréf þeirra fjögurra, sem gengu út skömmu síðar, eða í jan. sl. Þá eru einnig greinar í tímaritinu, sem taka nánar fyrir einstök atriði í hentistefnu "KFÍ/ML", s.s. í baráttunni gegn sósíalheimsvaldastefnunni og við mat á eigin fortíð. Loks er í blaðinu greinagerð, sem Kristján Guðlaugsson ætlaði að fá samþykkta og senda út til marx-lenínískra hreyfinga um allan heim. Þessi greinargerð afhjúpar vel þá stefnu sem "flokkurinn" hefur varðandi samskipti við erlendar hreyfingar, þ.e. að rægja EIK (m-l), ljúga til og vekja grunsemdir, þar sem annað er ekki unnt.

Eitt augljósasta dæmið um endurskoðunarstefnu "KFÍ/ML" er tilvitnun í Kristján Guðlaugsson, þar sem hann heldur því fram að borgarastéttin hafi verið við völd í Kínverska Alþýðulýðveldinu í 5 ár, þe. á árunum fyrir menningarbyltinguna. Þetta er hrein endurskoðunarstefna af nýjustu gerð og stuðningur við fjórmenningaklíkuna í Kína.

Um þetta og margt fleira getur þú lesið með því að ná þér í eintak af "Baráttu gegn endurskoðunarstefnu", sem kostar kr. 2oo og fæst í bókaverslunum Októberforlagsins í Reykjavík og á Akureyri og hjá öðrum söluaðilum EIK(m-l).

# Október

nýlega fengið bókasendingu frá Noregi, Danmörku og Bandaríkjunum. Meðal annars:

Bók um starfsbann("berufsverbot") í Danmörku, Pólitíska hagfræði, 5. bindi Maós á norsku, Bók Stalíns um Þjóðernisvandamálið, einnig Járnkrossinn - verðlaunaskáldverk norðmannsins og kommúnistans Jon Michelets um fasismann.

Nýtt íslenskt efni:

Til baráttu, námsmannablað EIK(m-l), Barátta gegn endurskoðunarstefnu, rækileg úttekt marx-lenínista (fyrrum félaga í "KFÍ/ML") á "flokknum" og uppgjör við hentistefnu hans. Þarna er að finna plögg sem Stéttabaráttan vildi ekki birta.

Auk þessa er að finna í Október-búðinni úrval efnis um stéttabaráttuna hérlendis og erlendis, efni frá marx-lenínistum víða um heim, og allt útgáfuefni EIK(m-l) og Októberforlagsins. Þá er þarna að finna baráttutónlist frá Norðurlöndum og víðar, á hljómplötum.

Október-búðin er á Óðinsgötu 30 og er opin daglega kl. 17-19 og 13-15 á laugardögum.

Eflið kommúnísku hreyfinguna og verkalýðsbaráttuna!

Lítið við í Október-búðinni!

# Greinaflokkur um efnahagsmál

# 5. grein Gengisfellingar

GENGISFELLINGAR

Gengi táknar verðgildi gjaldmiðils eins lands miðað við gjaldmiðil annarra þjóða. Þetta verðgildi hefur mikið að segja á tímum einokunarauðvalds, þegar mikið er flutt af vörum á milli landa. Gengisbreytingar hafa því mikil áhrif á efnahagsástandið í sérhverju einokunarauðvaldsríki, t.d. Íslandi.

Gengishækkun - þ.e. hækkað verðgildi krónunnar - lækkar verð innfluttra vara, lækkar upphæðir skulda erlendis og hækkar verð útfluttra vara erlendis. Gengishækkun er fremur fátíð í auðvaldslöndunum. Tilgangur hennar er þá að bæta hag sumra framleiðenda, s.s. þeirra sem flytja inn hráefni til framleiðslu sinnar. Að öðru jöfnu gæti gengishækkun haft þau áhrif að draga úr verðbólgu. Ekki hefur þó orðið vart við það hjá íslenskri auðstétt, þrátt fyrir hjal hennar um að nauðsynlegt sé að berjast gegn verðbólgunni.

Gengislækkun - "gengisfelling" og "gengissig" - er lækkun á verðgildi krónunnar, annaðhvort skyndilega eða smám saman. Gengislækkun hækkar verð innfluttra vara, hækkar skuldir erlendis og lækkar verð útflutningsvara. Innflytjendur fullunnins varnings - heildsalar o.fl. - græða á hækkuðu verði vöru sinnar, því að um leið hækkar prósentubundin álagning þeirra. Útflytjendur græða það helst á gengislækkun að markaðsstaða þeirra erlendis batnar. Varan lækkar í verði á erlendum mörkuðum, án þess að þeir þurfi nokkuð að gera til þess sjálfir, svo sem að lækka álagningu sína eða minnka annan gróða sinn. Gengislækkun er eitt meðal til að gefa verðbólgunni innanlands aukaspark í afturendann, og nýtist því vel til að bægja vofu minnkandi gróða frá sterkasta hluta einokunarauðvaldsins. Jafnframt bætir hún úr fyrir og jafnvel bjargar veikari einokunarfyrirtækjum og illa reknum. Gengislækkun er því aðeins eitt þeirra ráða sem auðstéttin notar til að velta byrðum dýpkandi kreppu auðvaldsins yfir á herðar verkalýðs.

En með gengislækkun veltir innlent auðvald kreppu sinni ekki aðeins yfir á verkalýðsstétt eigin lands, heldur einnig yfir á önnur auðvaldsríki og einokunarauðvald þeirra. Þegar íslenskar vörur - t.d. fiskur - lækka í verði á erlendum mörkuðum skapast við það viss vandamál hjá öðrum ríkjum sem keppa um markaði við Ísland. Öll líkindi benda til þess að evrópskt og bandarískt auðvald séu fyllilega meðvituð um þennan bagga af völdum íslenskrar auðstéttar, og að hann sé í rauninni það gjald sem vestrænn auðvaldsheimur greiðir fyrir hernaðarlega og efnahagslega aðstöðu sína hérlendis. Gengislækkanir íslensku krónunnar hafa ekki mjög mikið að segja fyrir erlend ríki, en eru íslenska auðvaldinu mikilsverð búbót.

Önnur tegund gengislækkunar er gengisfelling sem beinlínis orsakast af gengislækkun sterkra erlendra gjaldmiðla. Falli Bandaríkjadalur eða vestur-þýskt mark í verði er flestum minni auðvaldsríkjum sá einn kostur nauðugur að lækka einnig sinn gjaldmiðil í hlutfalli við viðskipti sín við viðkomandi stórveldi. Hitt er svo annað mál að smáríkin - t.d. Ísland - nota einlægt slík tækifæri til að lækka gjaldmiðla sína talsvert meira en þörf er á.

Í næstu grein verður fjallað um "þjóðnýtingu" og hlutverk ríkisvaldsins í auðvaldsþjóðfélagi.

E.s.: Þrátt fyrir óskir hefur blaðinu ekki borist neinar umsagnir um þenna greinaflokk. Hvernig væri að láta í sér heyra svo við vitum a.m.k. hvort við séum á réttri leið. Athugið að jákvæð viðbrögð eru líka gagnrýni.

# Skilaðu auðu

frh. af síðu 5

Reykjavík í Alþingiskosningunum og leggur þar fram að kunnugra sögn félagaskrá "flokksins" - og bjóði aðrir betur. Fylkingin býður ekkert umfram AB og skipar því sömu sveit. Greinargerð fyrir starfi og stefnu "KFÍ/ML" er á öðrum stað í blaðinu.

Er einhver valkostur?

Kosningar eru í eðli sínu tvíþættar. Annars vegar að velja einhvern þann er býður fram og hins vegar að velja engan og gera þar með auðu atkvæðin virk sem andstöðu við flokkakerfi auðvaldsskipulagsins.

EIK(m-l) munu í síðari kosningum bjóða fram og verða raunhæfur valkostur fyrir kommúnista og framsækna. Þá verður kosið um annars vegar virka baráttustefnu, þar sem þeir kommúnistar sem í framboði eru bera merki andstæð borgaralegum kosningaloforðum og þingræðismakki, og hins vegar þá stefnu sem þjónar auðherrum þessa lands og arðránskerfi þeirra.

Auður atkvæðaseðill er ekki seðill þeirra óánægðu, heldur þeirra sem eru í andstöðu. Við skulum því láta andstöðuna vaxa og nota atkvæðaseðil okkar í kosningunum sem lið í því starfi

# Lítil saga...

irnar. Hann var handtekinn og fluttur til Ísraels. Þar sat hann í gæsluvarðhaldi án dóms í 6 mánuði. Hann var pyndaður og honum meinað allt samband við umheiminn. Síðan var hann dæmdur í sjö ára fangelsi fyrir að hafa haft vopn í fórum sínum og fyrir að vera meðlimur í Al Fatah. Þetta var í febrúar 1973.

Hassan dæmdur eftir nýjum lögum

1973 voru sett ný lög í Ísrael, sem fjalla um glæpi gegn Ísrael utan landamæra ríkisins. Þetta þýðir samkvæmt lögunum að hægt sé að dæma mann sem talinn er "ógna öryggi ríkisins" í öðru landi til fangelsis-vistar í Ísrael. Samkvæmt þessu mætti dæma Íslending til fangelsisvistar í Ísrael fyrir að reka áróður gegn Ísrael á Íslandi - og það þó áróður gegn síonisma sé alls ekki bannaður á Íslandi! Ísrael hefur sem sagt sett lög sem ná til íbúa annarra landa! Það eru þessi lög sem beitt hefur verið gegn stríðsföngum frá Líbanon.

Annað , sem óvenjulegt er við þessi lög, er að þau verka afturfyrir sig. Hassan var dæmdur 1973 fyrir "brot" sem hann á að hafa framið 1972 - á þeim tíma sem lögin höfðu ekki verið samin. Þar að auki er vopnaeign og félagsaðild að Al Fatah alls ekki bönnuð í Líbanon - en þar var Hassan jú!

Slík lög eru andstæð öllum alþjóðalögum og Hassan var því greinilega saklaus dæmdur. Hann er aðeins eitt af mörgum fórnarlömbum árásarstefnu síonismans.

Hvað bíður Hassans ?

Hassan er giftur sænskri stúlku. Samkvæmt leikreglum "lýðræðisins" ætti Hassan að vera frjálst að fara til Svíþjóðar þegar hann sleppur úr fangelsinu. En síonisminn lýtur ekki "leikreglum lýðræðisins". Ísraelsmenn ætla að framselja Hassan tyrkneskum yfirvöldum þar sem hans bíða sennilega pyndingar og fangelsisvist.

Hvaða lærdóma má draga af þessu?

Hassan Fayek Bullut er aðeins einn fjölmargra baráttumanna sem Ísrael þverbrýtur öll mannréttindi á. Hundruð þúsunda Palestínumanna líða undir hernámi síonista, og milljónir eru landflótta. 6ooo pólitískir fangar eru í Ísrael - og hver og einn þeirra getur sagt svipaða sögu og Hassan. Það er því mikilvægt að herða baráttuna gegn síonismanum, og hér á Íslandi verðum við að afhjúpa erindreka síonismans, s.s. Óla Týnes, Jóhönnu Kristjónsdóttur og aðra borgaralega fréttamenn. Með því að styðja Ísrael ljóst og leynt, stuðlar þetta fólk að áframhaldandi kúgun síonismans á Palestínumönnum og öðrum framsæknum öflum.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
1/2 árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 4000
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Posthólf 5186,
Reykjavík, sími: 29212

# „Aukið vantraust á borgaralegu þingræði"

## Kosningaspjall við formann EIK(m-l)

Í tilefni komandi alþingiskosninga hafði Verkalýðsblaðið samband við Ara T. Guðmundsson, formann EIK(m-l), og bað hann að segja í fáum orðum frá því hvers vegna EIK(m-l) hvetji fólk til þess að skila auðu á kjörstað í komandi alþingiskosningum.

"EIK(m-l) vinna að smíði kommúnistaflokks sem verður stofnaður fyrir árslok 1979 - nýs verkalýðsflokks. Í því starfi skipir meginmáli að vinna marx-lenínismanum og baráttuafstöðunni á ný land meðal verkafólks og annarrar alþýðu. Kommúnistar hafa þá aldagömlu og þaulprófuðu afstöðu að lífskjarabreytingar og þjóðfélagsvöld séu fyrst og fremst afleiðing stétta- og fjöldabaráttu utan stofnanna auðstéttarinnar - svo sem alþingis og embættisbáknsins. Starf t.d. innan þings getur því aðeins verið angi alls byltingarstarfs kommúnista og vinnandi fólks utan flokksins," sagði formaður EIK(m-l).

Hann sagði ennfremur: "Til þess að efla ítök kommúnismans meðal fjöldans og hvika ekki frá undirstöðuatriðum baráttunnar er yfirleitt rétt að taka þátt í jafnmiklum stjórnmálahræringum og kosningar eru hér á landi. Á hvern hátt þetta er gert fer eftir aðstæðum - bæði innan EIK(m-l) og í þjóðfélaginu. Aðstæður í samtökunum eru nú þær að þau eru enn lítil, þau skortir frekari baráttutengsl við verkafólk og loks krefst framboð mikils undirbúnings. Þjóðfélagsaðstæður eru öðru fremur þær að vantraust á borgaralegu þingræði og ótrú á lýðskrumsflokkunum er nokkuð útbreidd meðal fólks. Hvorki borgaraflokkarnir - að Alþýðubandalaginu meðtöldu - né skuggar þeirra, Fylkingin og "Kommúnistaflokkurinn" eru valkostir í reynd."

"Til þess að hvetja fólk til fjöldabaráttu, til að beita afli EIK(m-l) rétt og til þess að auka þekkingu fólks á marx-lenínismanum og baráttustefnunni er því rétt nú að hvetja fólk til að snúa baki við þingsalaflokkunum og skila auðu að



**Ari T. Guðmundsson**
forðmaður miðstjórnar EIK(m-l)

þessu sinni. EIK(m-l) hafa töluvert upplýsingastarf með höndum í þessu skyni til 25.júní. Nú er gott tækifæri til þess að mótmæla því hvernig leikið er á vinnandi alþýðu og hún okuð á alla lund - mjög mörg auð atkvæði eru baráttustefnunni styrkur.

En í þar næstu kosningum skulum við sjá til þess að verkafólk og önnur alþýða eigi sinn eigin valkost", sagði Ari T. Guðmundsson að lokum.

# Afstaða EIK (m-l) til:

# Keflavíkurgöngu 10.júní

Þann 10.júní n.k. gangast Samtök herstöðvaandstæðinga (SHA) fyrir Keflavíkurgöngu til að vekja athygli á kröfu sinni: ÍSLAND ÚR NATÓ - HERINN BURT!

EIK(m-l) styðja heilshugar þessa kröfu. Þó bendum við á að barátta SHA gegn heimsvaldastefnunni er ófullnægjandi og ekki sigurstrangleg, þar sem ekki er tekin eindregin afstaða gegn báðum risaveldunum, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum, ekki skorin upp herör gegn stríðsundirbúningi þeirra beggja, ekki viðurkennt í orði og verki, að stefna beggja risaveldanna sé heimsvaldastefna.

EIK(m-l) starfa innan SHA og styðja vígorð þeirra. EIK(m-l) starfa þar á fjöldabaráttugrundvelli og berjast óvægið gegn þeim hópum sem vilja troða sinni eigin stefnu upp á SHA og nota SHA eigin hagsmunum sínum til framdráttar, s.s. trotskíistar í Fylkingunni, hentistefnumönnum í "KFÍ/ML", endurskoðunarsinnum í Alþýðubandalaginu o.fl.

EIK(m-l) berjast gegn vinsamlegri afstöðu þessara aðila til Sovétríkjanna og áhugaleysi um að berjast gegn þeim. Því miður ráða þessir hópar lögum og lofum innan SHA nú, sbr. afstöðu miðnefndar SHA til 21.ágúst í fyrra og höfnun þeirra á stuðningi við kröfur Baráttunefndar 1.des. 1977. Slíkir menn eru meðvitað og ómeðvitað svikarar við baráttuna. Andheimvalda-yfirlýsingar þeirra hljóta því oft að teljast hræsnin ein.

Í fyrri aðgerðum SHA hefur það verið látið viðgangast að einstök samtök fengju að bera sérkröfur sínar og hafa í frammi einkaáróður, sbr. trotskíísk áróðursspjöld og fána 4.alþjóðasambandsins - alþjóðaklíku trotskíista. Þetta er algjörlega óviðunandi. Eigi aðgerðir fjöldans að vera fjöldaaðgerðir, sem andheimsvaldasinnuð alþýða á að geta fylkt sér um, verður að banna slíkan skaðsemdaráróður smáklíkna. Það




**Samfylkingarstefna trotskíista felst í því að troða sér** fram með sérkröfur. Á myndinni sjáum við þennan pólitíska skemmdarverkahóp sitjandi undir fánum "4 alþjóðasambandsins" sem á sér langa sögu að baki í sundrungastarfi meðal alþýðu. (Mynd:Verkalýðsblaðið)

er ein af forsendum þess að slíkar aðgerðir virki hvetjandi á venjulegt fólk til starfa.

Aðgerðir SHA hafa oft verið notaðar sem kosningaáróður og áróður fyrir einstökum flokkum innan borgaralegs þingræðis. Einkum á hér Alþýðubandalagið stærsta sök með því að kæfa með þingræðislegu froðusnakki hverja tilraunina eftir aðra til að koma upp öflugri fjöldahreyfingu gegn hernum og gegn allri heimsvaldastefnu. Þetta hefur komið glögglega í ljós að undanförnu í starfi útsendara Alþýðubandalagsins í SHA. Og fleiri hafa nú tekið þátt í þessum leik en oft áður, nefnilega Fylkingin og "KFÍ/ML" sem bæði bjóða nú fram til Alþingis. Það er vafalaust engin tilviljun að ákveðið er að halda Keflavíkurgöngu nú aðeins örfáum dögum fyrir Alþingiskosningar. EIK(m-l) berjast gegn þessum tilræðum borgaralegra afla við SHA, og benda á að leiðin til sigurs liggur alls ekki um Alþingi - eitt af valdatækjum auðsins _ heldur eingöngu um fjöldabaráttu og virkt starf allrar andheimvaldasinnaðrar alþýðu.

Afstaða EIK(m-l) til aðgerða SHA þ. 10.júní n.k. er því þessi:

- Við krefjumst þess að bornar verði í göngunni kröfur gegn heimsvaldastefnu beggja risaveldanna.

- Við krefjumst þess að trotskíistum og öðrum klíkum verði bannað að saurga gönguna með einkakröfum og einkafánum sínum.

- Við krefjumst þess að borgaralegum þingræðissinnum verði meinað að nota sér þann fjölda sem þátt tekur í göngunni til að koma á framfæri kosningaáróðri sínum.

- Við styðjum Keflavíkurgönguna þ.10.júni n.k. og hvetjum félaga, stuðningsmenn og annað baráttufólk til að taka þátt í göngunni og gera hana að glæsilegu skrefi í baráttunni fyrir brottför herliðs bandaríska heimsvaldaseggja frá Íslandi.

# Kosningafundur AB í Haskólabíói

Sunnudaginn 21.maí s.l. hélt Alþýðubandalagið í Reykjavík kosningafund vegna borgarstjórnarkosninganna. Eftirtektarvert er að á fundinn komu aðeins um 800 manns. Sama meginatriði kom fram hjá öllum ræðumönnum fundarins: Það er unnt að "kjósa burt" auðvaldið - lítill hópur "málsvara alþýðunnar" í hluta valda- og stofnanakerfis auðstéttarinnar getur gjörbreytt núverandi ástandi.

Fundurinn og undirbúningur hans afhjúpaði vel eðli Alþýðubandalagsins sem falsks og borgaralegs verkalýðsflokks. Annars vegar kom fram afneitun á fjöldastefnu og baráttu utan stofnanna sem nauðsynleg vinna innan borgaralegra stofnanna getur aldrei komið í staðinn fyrir. Hins vegar er AB andvígt þeirri staðreynd að meginvaldatæki atvinnurekenda og auðstéttar eru ekki nothæf vopn verkafólki og annarri alþýðu. Af þessu leiðir að atkvæði til AB er stuðningur við hættulega tálsýn og við hemil flokksins á alla fjöldabaráttu.

Skemmtilegt var þó að sjá vandræðalega frambjóðendur, hvort sem var við Hagkaup eða bíóið, dreifa dreifimiðum til alþýðu manna svona einu sinni á fjögurra ára fresti - með ljósmyndara Þjóðviljans á hælunum.

Á fundinum seldust 40-50 eintök af Verkalýðsblaðinu og dreifiriti var dreift í litlu magni.

Fréttaritari.

# Kosningar eru þingræðisbarátta

Alþýðubandalagið er ófeimið við að afhjúpa sig sem fyrst og fremst og eingöngu þingræðisflokk. Aðalkjörorð AB í kosningunum er - Kosningar eru kjarabarátta -. Innihaldið í þessu kjörorði er það að kjör verkafólks ráðist á þingi og í ríkisstjórn. AB hefur þegar tekið þátt í því að sniðganga verkalýðsfjöldann þegar kaup og kjör eru ákveðin. Með stefnu sinni hafa leiðtogar AB í röðum ASÍ-forystunnar afgreitt alla ákvarðanatöku um samninga í hendur lítillar nefndarklíku,sem er jafn lokuð og bundin þagnareið, sem borgaralegir rjúfa jú ekki, og lokuðustu nefndir Alþingis. Nú keyrir AB þessari baráttuaðferð fram sem aðalsmerki í kosningabaráttunni.

-Kosningar eru kjarabarátta - er slagorð sem enginn borgaralegur flokkur getur tekið afstöðu gegn. Allir ætla að bæta kjörin, eða hefur einhver heyrt eitthvað annað nú að undanförnu? AB setti þetta hinsvegar fram sem einkenni baráttu sinnar og er vel að staðið,því það sýnir að orð EIK(m-l) um að AB sé andsnúið fjöldabaráttu en fylgi þingræðisbaráttu eru hárrétt.

Enn einu sinni spyrjum við samt almenna Alþýðubandalagsmenn og stuðningsmenn AB: Er ekki hyldýpi á milli þeirrar baráttustefnu sem er nauðsynleg í dag og þeirri stéttasamvinnustefnu sem AB-forystan fylgir, í einu og öllu? Er ekki komin tími til að snúa baki við þeim sem fara ranglega að í baráttuni og fylkja sér um rétta stefnu,þó svo að hún sé ennþá veik?

- Kosningar eru engin kjarabarátta, heldur einvörðungu barátta um það **hver skuli** stýra

# Herstöðvaandstæoingar á Akureyri: Gegn báðum risaveldunum

Herstöðvaandstæðingar í Menntaskólanum á Akureyri - MA, skoruðu á herstöðvasinna í kappræður um herstöðvarmálið þann 11.maí. Fundurinn var fjörugur og tóku margir til máls. Herstöðvasinnar urðu rökþrota hvað eftir annað. Athyglisverðast við fundinn er það, að á honum kom fram hörð andstaða gegn báðum risaveldunum, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum. Sýnir það að herstöðvaandstæðingar í Kópavogi standa ekki einir. Herstöðvaandstæðingar í MA hafa einnig tekið upp þessa baráttu!

Ályktun fundarins var samþykkt með 52 atkv. gegn 10 og hljóðar svo:

"Herstöðin á Miðnesheiði og vera Íslands í NATO er alvarleg ógnun við sjálfræði Íslands. Bandaríkin, það stórveldi sem öflugast er í NATO, hefur drýgt hina svívirðilegustu stríðsglæpi víða um heim. Þau hafa hlutast til um innanríkismálefni ótal ríkja og hvarvetna sáð blóði og dauða. Ísland hefur ekkert að gera í hernaðarbandalagi með slíku ríki.

Gegn allri heimsvaldastefnu! Gegn báðum risaveldunum, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum! Ísland úr NATO - herinn burt!"

# Lánasjóður námsmanna og menntamálaráðherra dæmdir fyrir lögníðslu

Nýfallinn er dómur í dómsmáli sem námsmenn höfðuðu gegn Lánasjóði námsmanna, menntamálaráðherra og fjármálaráðherra. Dómur þessi féll námsmönnum í vil að töluverðu leyti, þótt nokkuð hafi vantað á að hann teldist fullkominn sigur fyrir námsmenn. Dómurinn úrskurðaði að taka bæri í námslánum tillit til maka á framfæri námsmanns, og hafnaði þar með útreikningsaðferðum Lánasjóðsins. Hins vegar tók hann ekki nægilega skýrt af skarið varðandi börn námsmanna. Dómnum verður áfrýjað til Hæstaréttar, e.t.v. bæði af námsmönnum og ríkisvaldinu.

Mál þetta var sett í gang af Kjarabaráttunefnd námsmanna sem um skeið - haustið 1976 - tók baráttusinnaða afstöðu í einstökum afmörkuðum málum, m.a. þessu, fyrir tilstilli baráttusinna sem þar störfuðu.

Mikilvægasta krafan sem námsmannasamtökin geta nú sett fram er að núverandi meirihluti stjórnar sjóðsins víki úr stjórninni þegar í stað, og úthlutunarreglum Lánasjóðs verði þegar í stað breytt til samræmis við dóminn og kröfur námsmanna. Ella dragi námsmenn fulltrúa sína út úr stjórn sjóðsins.